# Fimtíu Passíu-Sálmar,

qvednir

af

## Hallgrími Péturssyni;

Sóknarpresti til Saurbæar á Hvalfjardarströnd, frá 1651 til 1674.

Editio XX.

Videyar Klaustri, 1820,
Prentadir á Forlag Íslands konúnglegu Vísinda Stiptunar,
af Faktóri og Bókþryckjara Schagfjord.

# 1. Sálmur.

Um Kristo útgaungu í grasgardinn.

Lagid er: Minnstú, o madur! á minn deyd.

Upp, upp, mín sál! og allt mitt géd, upp mitt hjarta og rómur med, hugur og túnga hjálpi til, Herrans pínu eg minnast vil.

2. Sancti Pauli skipar skyldu þá, ad skulum vér allir jordu á, kunngjöra þá qvøl og daprann deyd, sem Drottinn fyrir oss auma leid.

3. Ljúfann Jesúm til lausnar mér, lángadi þó ad deya hér; mig skyldi' og lysta' ad minnast þess, mínum Drottni til þakklætes.

4. Innra mig loksins ángrid sker, æ! hvad er lítil rækt í mér; Jesús er qvalsinn í minn stad, offjaldan hef'eg minnst á þad.

5. Sál mín! skodum þá sætu fórn, sem hefir oss vid Gud Drottinn vorn, fordæmda

tæmda aptur forlíkad; fegnudur er ad hugsa' um þad.

6. Hvad stillir betur hjartans bel, enn heilög Drottins pína'og qvøl? hvad heptir framar hneirli'og synd, enn Herrans Jesú blódug mynd?

7. Hvar sér þú betur, sál mín! sied, sanna Guds hjartans ástar-géd, sem Fadir gædskunnar fékk til þín, framar enn hér í Jesú pín'?

8 O Jesú! gef þinn Anda mér, allt svo verdi til dýrdar þér, uppteiknad, súngid, sagt og tjed, sídan þess adrir njóti med.

---

9. Ad lidinni máltíd Lofsaunginn, las sínum Fødur, Jesús minn, sídasta qvøldid, seint pad var, súngu med hans Lærisveinar.

10. Guds Sonur sá, sem sadníngs ráð, sjálfur átti á himni og lád, þádi sitt brand med þackargjørd, þegar hann umgéckst hér á jørd.

11. Þurfamadur ert þú, mín sál! þigg ur af Drottni sérhvert mál, fædu þína og fóstrid allt, fyrir þad honum þacka skalt,

12. Ills

12. Illum þræl'er þad eilíf smán, ef hann svo þiggur Herrans lán, drambsams lega og dreyssar sig; Drottinn geymi frá slíku mig!

13. Eptir þann saung, en ecki fyr', útgéck Jesús um húsins dyr, ad hans sidvenju er þad skéd, til olíu=fjallsins gánga réd.

14. Lausnarans venju lær og haldt, lofa þinn Gud og dýrka skalt, bænarlaus aldrei byrjud se, burtför af þínu heimili.

15. Yfirum Kedrons breidann beck, blessadur þá med sveinum gëck; sá lækur nafn af sorta ber, sýnir þad gódann lærdóm mér.

16. Yfir hörmúngar er mín leid, æ medan várir lífsins skeid; undan géck Jesús, eptir eg á þann ad feta ramma=veg.

17. Horfi eg nú í huga mér, Herra minn Jesú! eptir þér, dásamleg eru dæmin þín, dreg eg þau gjarnan heim til mín.

18. Þú vildir ecki upphlaup hart, því þegar þú fánginn vart, út í gras=gardinn géckstú því, gafst þig í manna hendur fri.

19. Af því lær' eg að elska' ei frekt, egið gagn mitt, svo friður og spekt, þess vegna raskist, þér er kjært, þolinmæði og geð hógvært.

20. Sorgandi gécksti sagða leið, særdi þinn huga qvøl og neyð; þlæandi glæpa hljóp eg stig, hefir þú qvittað fyrir mig.

12. Vort líf er gras garðs gánga rétt, grefin' er øllum fyrisett. Syndugra leið ei leik þér að, lendir hún víst í qvala-stað.

22. Ydrunar-tárin ættu vor, øll hér að væta lífsins spor, gégnum dauðann með gleði' og lyst, gaungum vér þá á himna-vist.

23. Þá Jésús nú á veginum var, við Postulana hann ræddi þar: henda mundi þá hrøsun skjót; harðlega Pétur þrætti' á mót.

24. Frelsarinn Jésús fyrisjer, þá fell og hrøsun er búin mér, hann veit og líka lækníng þá, sem leysa kann mig sorgum frá.

25. Aldrei — qvað Pétur — ætla eg, á þér hneixlast á nockurn veg, þó allir frá þér falli nú. Fullkomin var hans lofan sú.

26 Sú von er bædi vølt og myrk, ad voga freklega'á holdsins styrk, án Guds nádar er allt vort traust, óstødugt, veikt og hjálparlaust.

27. Gef mér, Jesú! ad gá ad því, glas kéri ber eg minn fésjód í, vidværun þína vy:di'eg mest, veikleika holdsins sier þú best.

## 2. Sálmur.

### Um Krists qvøl í grasgardinum.

Lagid er: Fadir vor, sem á himnum ert.

Jesús geck inn í grasgard þann, Gethsemane var nefndur hann; Af oliu þrúgum þad aukuast har; olíu-tréd rétt: Herrann var; oleum hjálpræd-is allra fyrst, af hans lífi þar pressadist.

2. Í aldingardi fyrst Adam braut, aptur Jesús þad bæta hlaut; aldingards rík-in ávøxt gaf, eymd, synd og vandi kom þar af; í aldingardi hjúst lífsins tréd, lífg-unar frjófgun veita réd.

3. Júdas þeckti vel þennann stad. Þar hafdi' hann lengi umhugsad: helzt mundi pláz þad hentugast, Herrann

 mætti.

mætti þar forrádast, svo færstir hefdu' ad segja' af því, svik hans lægju svo hylming í.

4. Satan hefir og sama lag, situr hann um mig nótt og dag, hyggjandi' ad glögt hvar hægast er, í hættu' og synd ad koma mèr; en þó í þeim stad allra mest, sem á eg Gudi' ad þjóna best.

5. Heims börnin hafa list [illegible] lært, lygd og svikrædi er þeim kjært, fótsporum djöfuls fylgjande, falsrádin draga þó í hlè. Frá hans og þeirra hrekkja, stig, Herra Jesú! bevara mig!

6. Opt hafdi Jesús í þann stad, ádur gengid; því veit eg þad, hefir sannlega Herrann minn, hugsad um pínu' og dauda sinn, fulltíngis bedid födurinn þar, svo fengi' hann stadist plusilenar.

7. Jurtagardur er Herrans hèr, helgra Guds barna legstader, þegar þú gengur um þennann reit, þín sè til reidu bænin heit, andláts þíns gæt og einnig þá, uppi risu daginn minnstú á.

8. Lærisveinana Lausnarinn kjær, lèt sumna bída nockud sjær, þrjá tók þó med sèr hjarta hreinn, hann girntist ecki' ad vera einn; sála mín! þar um þenkja skalt, þèr til lærdóms þad skèdi allt.

9. Guds kristni er gras-gardur hreinn, Guds Sonar ertú lærisveinn; sit þú hvar sem hann segir þér, sem hlýdni besta off-ur er, til krossins ef hann þig kallar þar, kom þú gl. dvær. án møglunar.

10. Freisting þúng ef þig fellur á, fordastú einu ad vera þá, gudhræddra selskap girnstú mest, gèfa þeir jafnan rádin best, huggun er manni mønnum ad, miskun Guds hefir svo tilskickad.

11. Hjartanlega vard harmþrúnginn, Herrann Jesús i þetta sinn holdid sjálf vid þad feikna fár, flutu í vatni augun klár, sagdi grátandi: sál min er, svo allt i daudann hrygg í mèr.

13. Hardtnær stein-snari frá þeim fór, féll strax til jardar Drottinn vor, flatur sitt blessad andlit á; ógnarleg qvøl hann mæddi þá; hja tad bardist í brjósti heitt, bædi var lif og sálin þreytt.

13. Samvitskan mig nú sjálfan slær, sie eg þad gjørla, Jesú kjær! min synd, min synd, hún þjádi þig, þetta allt leidstú fyrir mig, avi! hvad hef eg aumur þræll, aukid þèr mædu Drottinn sæll!

14. Mér virdist svo sem mín misgjørd, sé meiri' ad þyngd, en himin og jørd, því Jesús þad Fødursins ordid er, sem allt med sínum krapti ber, flatur blaut þó ad falla þar, þá fyrir mig bar hann syndirnar.

15. Hjartans gledi og huggan traust, hér gefst þér, sál mín! efalaust, þad gjald fyrir mína misgjørd, er meira verdt enn himin og jørd, hans sorg, skjálfti og hjartans pín, hjá Gudi'er eilíf qvittan mín.

16. Fram þegar Jesús fallinn var, seguirstu bæn hann gjørdi þar: abba Fadir! ástkærri minn, af mér tak þennann kaleikinn; þó svo sem helzt þú sjálfur vilt, sagdi Jesús, med gedid stillt.

17. Urrædin best er audmjúkt ged, ángrad hjarta og bænin med, hvenær sem kémur hørmúng ad, hugsa þú, sál mín! vel um þad, þolinmædi og mæglan þver, meiri refsíngar ablar sér.

18. Oblíúgur skaltú aldrei neitt, útheimta' hvad þú girnist veitt, til holds-

ins

ſins muna hentugt þér, hugſa jafnan: ad Drottinn ſjer, hvad liſi og ſál' til líds er nú, lángtum betur enn ſjálfur þú.

19. Eins líkaminn og ſálin ſé, ſann-audmjúkleg í bæninne, áſlitue Drottins innta þitt, ei ad ſ dur ſkal holdid þitt, fyrir Gud med blygdun gánga fram, gjørdi ſvo fordum Abraham.

20. Jeſú! þ n grátleg grasgards pín, gledur ør-þjáda ſálu mín, þitt hjartans ángur hjartad mitt, frá hrigd og nædu gjerdi qvitt; því ſkal míns hjartans hjartans þel, heidra þig, minn Immanúel!

## 3. Sálmur.

### Um Kriſts Dauda-ſtríd.

Lagid er: Fadir vor, ſem á himnum ert.

Enn vil eg, ſál mín! uppá ný, uppe-haf taka á máli því: uppſtód Jé-ſús, þó þreyttur ſé, þriſvarſinnum frá bæninne. Læriſveinarnir ſváfu faſt, Sancti P tur því ávítaſt.

2. Til og frá gëck hann þrísvar þó, þar fëckst ei minnsta hvíld né ró; undanfæri því eckert fann, allstadar Drottins reidi brann, gëgnum hold, ædar, blód og bein, blossi gudlegrar heiptar skein.

3. Himnaljósid var honum byrgt, helzt því af nótt var ordid myrkt, ástvina huggun enga fann; allir sváfu um tíma þann; jördin var honum óhæg eins; engin fëckst bót til þessa meins.

4. J. þessum speigli þad sje eg: þeim sem Drottinn er reidur mjög, hverki verdur til huggunar, himin, ljós, jörd né skëpnurnar, án Guds nádar er allt um kring, eymd, mæda, qvöl og fordæming.

5. Framar sjest hër hvad fárleg sje, fordæmdra qvöl í helvíte; frá einni plágu til annarar, í ytstu myrkrum þeir rasa þar; ó! hvad syndin afskapleg er, allt þetta færir hún med sër.

6. J. þridja máta af þessu sjest, þad lærdu, sál min! allra best, Guds reidi eld og eilíft fár, útsloktu og lagdu Herrans sár, allt honum því til ama var, svo allt verdi hër til huggunar.

7. Hrigd-

7. Hrigdar-frorin þln, Herra minn! í himnariki mig leida inn; í nætur myrkrum lá neyd á þér, náðar- og dyrdarljós gafst mér; vinir þér enga veittu stod, svo vinskap feng' eg vid sannann Gud.

8. Þar kom lokstins á þeirri tíd, þreytti Jesús vid daudans strid. Andlát mitt bædi og bana-sótt, blessadist mér þá sömu nótt, daúdinn tapadi, Drottinn vann, dyrdlegann sigur gaf mér hann.

9. Agéck svo daudans ablid ríkt, eckert dæmi má finna slíkt: allur líkami Lausnarans, laugadist þá í blódi hans, sá dreira-sveitinn dundi á jørd, Drottins pína þol mjøg var hørd.

10. J Adams broti var blódskuld gjørd, bølvun leiddi þad yfir jørd; Jesú blód þér til jardar hné, jørdin aptur svo blessud sé, ávøxtur, gródi og aldin klár, oss verdi ad notum sérhvert ár.

11. Sár-kalda daudans sveita-bad, um sídir þá mér kémur ad; sárheiti dreirasveiti þinn, sefi og myki, Jesú minn! ángistar-sveita eilíft bál, aldrei lát snerta mína sál.

12. Mér er svo qvel þín minnileg, á morgni hverjum þá uppstend eg, fyrst

eg sig nidur fæti á jörd, fær eg þér hjartans þackargjörd, blód-sveitinn þinn eg bid mér sé, blessan og yernd á jördunne.

13. Hörmúng þá særir huga minn, hef eg mig strax í gras-gard þinn, dropana thn'eg dreira þíns, Drottinn! í siódinn hjarta míns, þad gjald alleina gyldir mest, hjá Gudi fyrir mín afbrot vest.

14. Upphaf alls mesta ófögnuds, á-klegun straung og reidi Guds, bætt er, fridstillt og forlíkad, Fadirinn lét sér lynda þad, Sonurinn bar hans brædi fít, borg-adist þrællinn út med því.

15. Þess meir, sem pínan þreyngdi sá, því innilegar Jésús bad, heilagur Eingill himnum frá, Herra sinn kom ad styrkja þá. Einn hefir þú hér einn lærdóm, ydka og lær hann, sál mín fróm!

16. Ef hér verdur, (sem opt kann ské) undandráttur á hiálpinne, bid, styn, andvarpa æ því meir, sem aukast vilja harmar þeir, födurlegt hjarta hefir Gud, vid hvern, sem líður kross og naud.

17. Sjá þú, ad Eingill sendur var, Syni Guds hér til huggunar; þeir gódu Andar oss eru nær, alla tíma þá bidjum

vær, helzt þá lífs enda líður að, Lazari dæmi sýnir það.

18. Heiður, lof, dýrð á himni' og jörð, hjartanleg ástar þackargjörð', Drottinn Jesú! þér sætust sé, sángin af allri kristninne, fyrir stríðið þig þjáði frekt, það er vort frelsi æfinlegt.

# 4. Sálmur.

## Samtal Krists og Lærisveinanna.

Lagið er: Einn Guð Skapari allra sá.

Postula kjöri Kristur þrjá, í qvölinni sér að vera hjá, bauð þeim: vakið og biðjið víst, bráðleg freistni svo grandi síst.

2. Strax, sem Jesús um stein-snar nær, stje fram lengra — þess gjætum vær — allir sofnuðu sætt með ró, sjálfur Herrann einn vakti þó.

3. Aður var svoddan um þig spáð, ásett framkom nú Herrans ráð, þú hlautst Guðs reiði-þrúgu einn, þrengtur að troða Jesús hreinn.

4. Ef eg skal ecki sofa' í synd, svo er náttúran veik og blind, um stein-snar

mátti ett mér þá, aldrej, minn Jesú! víkj: frá.

5 Natur-hvíldin mín náttúrlig, nóg er mér trygg þá veit eg þig, hjá mér vaka til hjálpræðes, hvert qvøld vil eg mér óska þess

6. Þ:i ver Jesús til þeirra fór, þó að hann mæddi pína stór; hann bad Pétur með hryggri lund, hjá sér vaka um eina stund.

7. En hann sófnaði æ því meir, ej heldur vissu sjálfir þeir, hverju svøruðu honum þá. Herrans pínu mjeg jók það á.

8. Mig hefir sjálfur Lausnarinn, leidt inn í náðar grasgard sinn, vakandi svo eg væri hér, viti i skirnin minn um það ber.

9. Ungdóms beruskan — sem vanlegt var — vildi mig ofmjøg svæfa þar; forëlldra hirting høgværlig, hans vegna kom og vakti mig.

10. Alldurinn þá mér ødladest, áfell gjálífis svefninn mest; Kennimenn Drottins komu þrátt, kølludu mig að vakna brádt.

11. Full-

11. Fullvaxinn gleymsku svefninn sár, sókti mig heim og vard mjeg dár, dynmsan heims elsku-dróst ad med, dapurt vard mitt til bænar ged.

12. Þá kom Guds Anda hræring hrein, í hjarta mitt inn sá-ljóminn skein, en í heimsku n̄ni svo eg svaf, sjaldan mig neitt ad slíku gaf.

13. Fárlega var mín fiblskan blind, forlát mer, Jesú! þessa synd! hvar med ad jók eg hermúng þér, en hefud og refsíng sjálfum mér.

14. Láttú þó aldrej leidast þér, ljúfi Jesú! ad benda mer; hugsi til min þitt hjarta mildt, hirdtú mig líka, sem þú vilt.

15. Vil eg nú hjartans feginn sá, Frelsari minn! ad vaka þér hjá, andinn til reidu er í stad, ofmjeg holdid forhindrar þad.

16. Jesús unnti med ljúfri lund, Lærisveinum ad holla um stund; því hann vorkynnti þeim og mér; þad eitt mín blessud huggan er.

17. Sidarst allra þá sá hann þar, svikara lid fyrir hendi var, baud þeim: vak,

vakid og bidjid best, burt er nú værdar tídin mest.

18. Svoddan áminníng, sála mín! sannlega skyldi ná til þín, svo þig ei skadi svefninn vær, svikarinn er þér ecki fjær.

19. Daudinn forrædur fjörid þó, fyrr enn vardi, þvi margur dó; hann er í nánd þó sjáist sízt, sérhvern dag er hans áhlaup víst.

20. Daudinn þá mætir dapur þér, dóminn hefir hann eptir sér, Andskotinn bídur búinn þar, í bálid vill draga sálirnar.

21. Sjá þú vel til, ad svoddann hér, sofandi komi ecki' ad þér, í hreinni ydrun þú hvern dag vak, herskrúda Drottins á þig tak.

22. Bænin má aldrei bresta þig, búin er freistíng hvimleidig, þá líf og sál er lídid og þjád, lykill er hún ad Drottins nád.

23. Andvana lík til einkis neytt, er ad sjón, heyrn og máli sneydt; svo er án bænar sálin snaud, sjónlaus, kold, dauf- og rétt steindaud.

24. Vaktú, minn Jesú! vaktú í mér, vaka láttú mig eins í þér, sálin vaki þá sofnar lif, sé hún ætíd í þinni hlíf!

## 5. Sálmur.

Um Gydíngana komu í grasgardinn.

Lagid er: Heidrum vjer Gud af huga' og sál.

Medan Jesús þad mæla var, manfjøldi kom í gardinn þar; Júdas, sá Herra sinn forrád, sveinar Prestana' og stridsfólk med, skridbyttur báru, blis og sverd; búnir mjøg út í þessa ferd. Um þad eg framar þenkja verd.

2. Verdur þad oft, þá varir minnst, voveifleg hætta búin finnst, ein nótt er ek til enda trygg, ad þvi á qvøldin, sálin min! hygg, hvad helzt, sem kann ad koma uppá, kjós Jesúm þér ad vera hjá, skelfing engin þig skadar þá.

3. En Júdas hafdi ádur sagt, audkenni þeim, og svo vid lagt: hvern eg kyssi, handtakid þann, høndlid med gætni og bindid hann. Varastú, sál min! svik og prett, þó synast megi í hylming sett, Drottinn auglióst þad dæmir rétt.

4. En Jesús ádur allt fornam, hvad atti vid hann ad koma framm; þó géck hann sjálfur þeim á mót, þanninn ræddi med kjærleiks hót: ad hverjum leitid híngad þèr? hópur illmennis þanninn tjer: Jesúm nadverska nefnani vèr.

5. Jeg er hann! sagdi Jesús þá, Júdas sjálfur stód flockinum hjá; óbligt var Drottins ordid þad, allir til jardar fèllu' í stad. Hvad hans óvinir hrelldi mest, huggar nú mína sálu best, í allri neyd þad auglýsest.

6. Þá eg fell edur hrasa hèr, hærstur Drottinn vill reidast mèr, þá segir Jesús: eg èm hann, sem endurleysti þann syndaránn, med mínu blódi, og beiskri pín, brædi, Fadir kjær! stilltú þín; eflaust skal þad afsekun mín.

7. Djøfull, synd og samvitskan ill, sálu mína þá qvelja vill, eins segr Jesús: eg er hann, sem afmá þína misgjerd vann, líka sem vindur lèttfær ský, lángt feykir burt, og sjást ei því; á mig trú þú svo ertú frí.

8. Þeg-

8. Þegar mig særir sótt eda qvøl, sorgleg fátækt og heimsins bøl, jeg veit þú segir: jeg er hann, Jesús, sem lækna vill og kann; audlegd á himnum áttú víst, eymd þín og hriggdt gledi snýst, heiminn sigradi'eg, hrædstú síst.

9. Á randastund og dómsins tíd, Drottinn! þad skal mín huggun blíd, ord þitt er sama: eg er hann, sem inn þig leidi'í himnarann, þjón minn skal vera þar eg er, því hefir þú, Jesús! lofad mér, gladur eg þá í fridi fer.

10. Jeg segi á móti: jeg er hann, Jesú! sem þér af hjarta ann, ord þitt lát vera eins vid mig, elska eg, segdu, líka þig, eilíft þad samtal ockar sé, uppbyrjad hér á jørdunne, Amen! eg bid: svo skuli ské!

## 6. Sálmur.

### Um Júdasar koss og Kristsfángelsi.

Lagid er: Einn Herra eg best ætti.

Frelsarinn hvergi flýdi, fjandmenn þó sáu senn, Herrann beid þeirra' hinn þýdi, þeim leyfdi á sætur enn. Hvern

helzt þeir hugsi' ad finna, hann spyr, —sem ljóst eg gét—jafnt sem fyrr Júdar inna: Jesúm af Nazareth.

2. Eg em hann, aptur sagdi, annad sinn Jesús hátt. Lærisveinunum lagdi, líknar ord þetta brádt: ef mín ydur lystir leita, þá látid þessa frí. Búin var hann ad heita, hjálprædis ordi því.

3. Hér af má heyra' og skilja, Herrans vórs Jesú makt, ecki gat án hans vilja, á hann neinn hendur lagt. Vid mig þó hatri hreisi, heiptar-menn illgjarner, enginn kann, utan hann leysi, eitt skérda hár á mér.

4. Födurnum hjarta hlýdinn, hann gafst á þeirra vald, sál mín! því sért ógoldin, sjá! þitt óhlýdnis gjald, viljugur vild' hann bæta, víst er þín skylda' audsjen, ást og audsveipni mæta, áttu ad leggja' igén.

5. Júdas kom fljótt sem kunni, kyssandi Jesúm nú, mælti fláráðum munni: Meistari! sæll vert þú! Herrann hógværdar ríkur, hann sagdi: þú, minn vin! med kossi son mannsins svíkur! Sést mun því hefndin lin.

6. Svo munn eplid eina, aumlega ginnti'um sinn, fals=koss þvi fèck ad reyna, Frelsari! munnur þinn; blidmælum Djøfuls bægdu, svo bleckist eg ecki af þeim, þeims hrecki lika lægdu, lif mitt og æru geym!

7. Audsjen eru'augum þinum, øll vjel og launsvik hèr, hrynd þeim úr huga minum, hreint skapa gèd i mèr, virdstú mig vin þinn kalla, verda lát raun þar á, holds lyst og hræsni alla, hindra og rek mèr frá.

8. I hættu'og háska mikinn, hefir mig Satan leidt; o hvad opt eg verd svikinn! ei gèt eg hjá þvi sneydt, Son mannsins svikum mætti, sannlega uppá þad, svikanna háskinn hætti, hjá mèr ei finndi stad.

9. Munnur þinn — ad. eg meina — mynnist vid Jesúm bert, þá hold og blód hans hreina, hèr fær þú, sál min! snert. I Guds nafni'ad þèr gádu, gef honum ei koss med vèl; i trú og ydrun þig tjádu, tilbú þitt hjarta vel.

10. Þángad þegar ad stundu, þusti illrædis lid, húfasta Lamb Guds bundu; lokid var øllum frid; hardsnún-

um

um reiþum reiðu; ránglætis wſus hann galdt; Drottinn í dróma keyrðu, dofnaði holdið allt.

11. Þúðar þig, Jesú! ſtrengðu, jeg gaf þar efni-til, ſyndir mínar þér þreyngðu, þeſs nú eg ydraſt vil; glæpa bønd af mér greiðir, og géf mér frelſið þitt, andlegum koſa eyðir, ſem áféll hjarta'd mitt.

12. Guðs Son var gripinn bøndum, géfinn ſvo yrði'eg frí, hann reirðiſt hørðum bøndum, blaut eg miſkun af því; fjøtur þúng og fángelſi, frekt lá, minn Herra! á þér, Dauðans og Djøfuls helſi, duttu því laus af mér.

13. Við eg þín bøndin hørðu, bindi nú hvern minn lið, frá allskyns glæpa gjørðum, og geldum heimſins ſið. Laus og liðugur an'i, lífs meðan dvelſt eg hér, þér ſé jafnan þjónandi; þeſſa bón veittú mér!

## 7. Sálmur.

### Um Péturs vørn og Malchuſar eyra-ſár.

Lag: Guðſku Guðs vjer príſum.

Þauſnarans Læriſveinar, þá litu atburð þann, og Júda' athafnir ein-

ar, ellir sen spurdu hann: egum vèr ecki'
ad slá, óvina sveit med sverdi? svo hèr ei
þhygra verdi. Sál mín! hèr gjørr ad gá!

2. Ef þú áforma viltir, eitthvad, sem
vandi'er á, þarfleg ráð þyggja skyldir,
og þig vel fyrir sjá, af því optlega skèr;
ja, sem er einn í rádum, einn mætir skada
brádum, seint þá ad ydrast er.

3. Enmed því mannleg vitska, ímørgu
aðir skamt, á allt kann ecki'ad gitska, sem
er þó vandasamt; kost þann hinn besta
kjós: Guds ord fær sýnt og samlad;
hvad sè þèr leyst eda bannad, þad skal
þitt leidar-ljós.

4. Petur med svellu sinni, sverd úr
slidrum dró — hans trú'eg brædin brinni —
og beint í flockinn sló, Malchus hlaut hèr
af tjón, hann misti hid hægra eyra, heggid
tók ecki meira; þessi var Biskups þjón.

5. Lausnarinn ljóst nam svara, Lærisveininum fyrst: látid þessa framfara,
frekast ad sinni lyst. Petri svo sagdi
nú: sverds dauda sá skal sekur, sem
sverd án leyfis tekur, sverd slidra, Símon! þú.

6. Meinar þú Faðirinn mildi, mundi ej senda hér, ef eg þess éska vildi, Engla til fylgdar mér, fleir enn tólf fylkingar? eda mun skyldt eg ecki, á-steinktann kaleik drecki, sem mér þó settur var?

7. Svo mun uppfyllest ega, hvad er í Ritning' tjád, og sidan sannast mega, hvad sjest fyrir laungu spád. Svo eptir Sermon þann, eyra þjónsins áhrærdi, sem ádur Pétur særdi, læknadi' ad heilu hann.

8. Sál-mín! lærum og sjáum, med sannri hjartans lyst, tvennslags sverds gløggt vid gáum, greina skal-þar um fyrst: sverd Drottins Dómarinn ber; sverd egin-hefndar annad, sem øllum-verd-ur bannad, þad kéunir Kristur hér.

9. Bid eg: hér gløggt ad gætir, góð Valdstjórn heidurlig! saklausann sist þú grætir, né sjálfa meidir þig, vyrd sverd Guds vandlætis, blód skaltú þol ej banna, burtsníd þú grein lastanna; merk dæmi Móisis!

10 Þitt sverd, sem þitt er egid, fyrir þjna-egin sök, skal ei úr skeidum dreg-

id, ſkír erú þar til rek, Jeſús það bannar bert, honum er ſkyldt þú hlýðir, hógvær umberir, líðir, það móti þér er gért.

11. Ræn ei Guð ſínum rétti, því reiknaſt heſndin hans, Valdſtjörn til verndar ſetti, víða um bygðir lands, ellegar að því gá: ſverð Drottins, ſem hér nefniſt, ſannlega á þér heſniſt, tjón þitt tvefaldaſt þá.

12. Malchus, ſem miſti eyra, merkir þá alla frí, ſem orð Guðs ecki heyra, ega þó koſt á því, heyrn er þeim hægri ſljó, vinſtri hluſt heilli halda, það og ſpélni margfalda, nóg géta numið þó.

13. Skálka-mark mátti kalla, Malchus hér fengi rétt; á Guðs óvini alla, einkénni ſlíkt er ſett, orð hans ei akta hér; jeg bið og jafnan ſegi: Jeſú minn! láttú eigi, það merki ſjáſt á mér!

14. Enn finnur þú hér framar, Frelſarans dæmið beſt; hörmúngar hættuſamar, á honum lágu meſt, ſitt trauſt þó ſetti hann, á Guðs Föðurs gæðſku ríka, gjör þú það, ſál mín! líka, ef kroſs þig henda kann.

15. Hvøl síaa Jesús kallar: kaleik á-skeinktann sér. Kross þinn og eymdir allar, eins máttú neina hér; því Drott-inn drack þér til, fyrir þig þá hann pínd-ist, svo þú, min sál'! ei týndist, gjör hon-um gjarnan skil.

16. Þú mátt þig þar vid hugga, hann þeckir veikleik' manns um þarstú eck'ed ugga, ádryckju skamtinn hans, vel þín vängvædi sjer; hid stragsta dreck hann sjálfur, sætari'og minni'enn hálfur, skerf-ur er skeinktur þér.

17. Heipt mína'og hefndar nǽmi, hefir þú Jesú! bætt, mér gafst manngædsku dǽmi, þá Malchus fécktú grǽdt; eg þarf og einnig vid, eyrad mitt lǽknad vyrdi, svo ord þitt heyri'og vyrdi; þyd-lega þess eg bid!

18. Hjálpa mér, Herra sǽli! ad hálda kross-bikar minn, svo mig ei und-an mǽli, né mógli' um vilja þinn. Eg bid: almǽtti þitt, vorkénni minni veiki, ef verda kann eg skeiki, hressttu þá hjárt-ad mitt!

## 8. Sálmur.

### Prédikun Krists fyrir Gydingum.

Lagid er: Sá frjáls vid lögmál fæddur er.

Taladi Jesús tíma þann, til vid ó-
vini sína, sem komnir væru ad
höndla hann: heyrum þá kenning sína!
2. Sem til illvirkja erud þér, út-
gengnir mig ad fánga; ádur gát eng-
inn meinad mér, í musterinu ad gánga.
3. Daglega hef eg sent og sagt, sann-
leiksins kenning mæta; enginn gát hend-
ur á mig lagt; ættud nú þess ad gæta.
4. Yfir stendur nú ydar tíd, upp-
fylld svo Ritning verdi, myrkranna
geysar maktin strid; mæla svo Jesús gjördi.
5. Ljúflyndi blessad Lausnarans, líttu
hér, sál mín kjæra! sá vill ei dauda synd-
ugs manns; svoddan máttu nú læra;
6. Jesús þeim synd'i sanni raun, sál-
ar heill, nád og frelsi, Guds Syni Júdar
guldu'l laun, grimd, hatur og fángelsi.
7. Furda þú, sál mín! engin er, ei
skalt þú þeim dæmi týna, þó veröldin launi
vondu þér, velgjörd mjög litla þína.

8. Syndinga dæmi skynja skalt, sk.l þig vid sdygd slika, þacklæti fyrir gódgjerd gjalldt, Gudi og mønnum lika.

9. Jeg læt mér þessu jafnframt sagt, Jesú! af ordum þínum, enginn gæt hendur á þig lagt, ad eginn vilja sínum.

10. Þann takmarkada tímans púnkt, tilsetti Fadirinn mildi, nær þad ánaudar okid þúngt, yfir þig gánga skyldi.

11. Eins uppháf lika og ending med, allrar hørmúngar minnar, Fadir himneski! er fyrisjed, í forsjón miskunar þinnar.

12. Þessi nú tíminn ydar er, Ósvinum Jesús sagdi; Herrans eg þetta máltak mér, í minni eg hjarta lagdi.

13. Ná-stendur yfir nádar-tíd, naudsyn er þess eg gætti, lidur mig Drottins bidlund blíd, brot mín svo qvittast mætti.

14. Ef eg þá tíd, sem Gud mér gaf, gálaus forsóma nædi, Drottins tími þá rekur af, tvímælin øll í brædi.

15. Því lengur, sem hans bidlund blíd, bedid forgéfins hefur, þess hardari mun hefndin stríd, hefndar þá Drottinn krefur.

16. Guds

15. Guds vegna ad þér gæt, m. sál! glæpum ei lengur safna, gjöru-ydrun, því meir enn mál, mun vera synd ad hafna.

17. Í dag vid skulum skipta' um skjótt; skal synd á flótta rekin; hverr veit nema sé nú í nott, nádin í burtu-tekin?

18. Talar Jesús um myrkra makt; merkid það, Valdstjórnendur! ydur skal nú í eyra sagt: umdæmid heims tæpt stendur.

19. Ljósid myrkrin burt leidir fél, med ljóma birtu sinnar, varast' ad skyla skálkum því, í skugga maktar þinnar.

20. Minnstú ad myrkra maktin þver, þá myrkur daudans skalt kanna, í ytstu myrkrum enginn sjer, adgreining hefdinga-janna.

21. Myrkri léttari' er maktin þín, minnst þess fyrir þinn dauda, þá Drottins hátignar dýrdin skín, hún dæmir eins ríka' og snauda.

22. Fyrst makt heims er vid myrkur líkt, mín sál! haldt þér í stilli, varastú þig ad reida ríkt, á ríkis-manna hylli.

23. Drottinn Jesú! þú lífsins ljós, lýstú valdstjórnar mönnum, svo þeir, sem ráða yfir oss, eblist að dygdum sønnum.

24. Jesú! þín kalda qvala stund, qvalatíd af mér svipti, Guds barna gafst mér gledi fúnd, góð vóru þau umskipti.

25. Myrkranna þreyngdi maktin þér, mig svo leystir úr vanda; qvalanna ystu mýkur mér, mega því aldrei granda.

## 9. Sálmur.

### Um flétta Læriſveinanna.

Lagid er: Jesú Kristi! þig kalla'eg á.

Þá Læriſveinarnir sáu þar, siñ Herra gripiñ høndum, og þaṅ af fólki verſta var, vægdarlauſt reiðdur bøndum, allir þeir honum flýdu frá, forlétu Drottinn hreinann, í háſka einann. Að ſvoddan ſkulum vid, sál mín! gá, ſjáum hér lærdóm beinann.

2. Án Drottins ráda'er adſtod manns, í engu minnſta gyldi, ſáuḣtt reyniſt ópt fylgid háns, er freka ſt hjálpa ſkyldi. Hverr einn vill forda ſjálfum ſér, ſá-

ſkyns-

skyniſt háſki búinn, ad hendi ſnúinn, ſar
þol varleg'ad fallvelt er, frænda og vina
trúin.

3. J ſama máta ſjer þú hèr, ſál mín!
í ſpeigli einum, ad hriggilegar ſè háttad
þèr, enn Herrans lærisveinum; þeir høfdu
lerſt Lauſnarans, liſt ad forda ſínu, frá
ſárri pínu, naudugir miſtu náviſt hans;
nú gæt ad rádi þínu.

4. Hvad opt, Jeſú! þèr ſlúdi'eg frá,
frekt á mót vilja þínum, þá glæpa=veginn
gèck eg á, girndum fylgjandi mínum? for=
ſkuldad hafd'eg fyrir þad, flótta-madur ad
heita, til heljar=reita, en þú vyrdtiſt mèr
aumum ad, aptur í miſkun leita.

5. Einn varſtú, Jeſú! eptir þat, í þí=
nna látinn hendum, einn ſvo eg væri
aldrei í, eymd og freiſtingum vondum,
allir forlétu einann þig, allt ſvo mig
hugga kynni, í mannraun minni. Eg
bid: Drottinn! lát ecki mig, einſamlann
nockru ſinni.

6. Læriſvein, ſál mín! ſjádú þann,
ſem Jeſú eptirfylgdi, ránglát ung=
mennin rændu hann, rètt nakinn vid

þau skildi. Versuggur slótti betri er, enn bræðralag óréttinda, við selskap synda, óvinnsug lát þig engann hér, í þeirra flocki binda.

7. Burt þaðan Jesúm færdi sljótt, flockur illrædis-manna. Lamb Guds saklaust, þá leid ad nótt, leiddu þeir til qvalanna, miskunarlaus sú medferd bráð, mér vyrdist eptir vonum, í nátt-myrkronum, þeir hafa bædi hrakt og hrjád, hrundid og þjakad honum.

8. Í daudans myrkrum eg dæmdur þræll, dragast átti til pínu, en þú tókst, Jesú Son Guds sæll! saklaus við straffi mínu, þannig tilbjóstú lífsins leid, ljómandi sálu minni, þó líf hér linni andláts qvolum og kaldri neyd, qvid'eg því engu sinni.

9. Hrektu því svo og hrjádu þig, Herra minn! Illsku þjódir, að hér nú bæri á höndum mig, heilagir englar góðir, mæðusöm urdu myrkrin þér, mæta létu þig herdu, og hindrun gjördu, Guds dýrdar-ljós svo lýsi mér, á lifandi manna jerdu,

10. Vakta-

10. Qvala-fer, Jesú! þessi þín, sem þú gëckst' einusinni, veri kraptur og verndin mín, svo veginn lífsins eg finni. Lát ecki Djöful draga mig, í dofinnleik þöldsins blinda, til sekta' og synda; eg bid af ást og aláð þig: ákæfd hans burtu hrinda.

## 10. Sálmur.

Um fyrsta ransak fyrir Kaiphasi.

Lagid er: Guds Son kallar: komid til mín.

Til Hannas's húsa Herrann Krist, hardrádir Júdar leiddu fyrst — beisk frá' eg bönd hann særi, honum strax þadan vísad var, vidtekt fëck ei nje hylldir þar, mjög svo þótt mæddur væri.

2. Burtsendi því med beiskri pín, bundinn Kaiphas' mági sin, Hannas vorn Herrann sæta. Höfud-kennimanns hærstú stëtt, hafdi sá þetta' ár-id rëtt, Guds lögmáls átti' ad gæta.

3 Ur himnaríkis hylldar-stad, hefdum vid, sál mín! verdskuldad, útrekin víst ad veraz: en Jesús tók nú uppá sig, ónádar: þessa fyrir þig. Lof sé þeim sjálfa Herra!

4. Hjartad bædi og húsid mitt, her-bergi veri Jesú! pitt, hjá mér bygg hulld heutuga; þótt þú komir med krossinn þinn, kom þú blessadur til míu inn, fagna'eg þér fegins huga.

5. Kaiphas hefdi hér um spád, hent-ugast mundi þetta rád: ad dæi einn fyrir alla. Embættis mælti andinn par, af því hjartad ej vissi par, sannleik Guds sinnti varla.

6. Bilaams dæmi eins var eitt, andagift slík var honum veitt, spaklega túngan spádi, hann hafd'i sinni hreckja rád, hjartad fékk ecki sannleiks gád, því hann fjegirndin þjádi.

7. O Jesú! lát þinn Anda hér, aldrei víkja í burt frá mér, leid mig veg lífsins orda, svo hjartad bædi'og málid mitt, miki samhuga nafnid þitt, holds girnd og hræsni forda!

8 Til Kaiphas's vóru komnir senn, Kénnivaldid og Stjórnarmenn; Biskupinn þegar ad bragdi, leitar andsvars til Lausnarans, um Læris-veina' og Kénning hans? en Jesús aptur sagdi;

9. Op-

9. Opinberlega, en ecki leynt, í mysterinu kvíd'eg beint, hvad pyr þú mig um þetta? kunngjöra mega þar um þér, þeir, sem lærdóminn heyrdu af mér, þá láttu þig leidrétta.

10. Gæt ad, min sál! og sjádu þar, Sonur Guds undir ransak var, krafdur þad qveldid eina; á qveldi hverju þú koma skalt, qveld-reikning vid þig sjálfa haldt, med qveld-offurs ydrun hreina.

11. Þú, Guds Kennimann! þenk um þad: þar mun' um sídir grenslast ad, hvernin og hvad hér kendir, ad lærisveinum mun líka spurt, sem lét þitt gáleysi villast burt; hugsa glöggt hvar vid lendir!

12. Jesús vill, ad þín kenning klár, kroptug sé hrein og opinskár, lík hvellum lúdurs hljómi, laun smjadran öll og hræsnin hál, hindrar Guds dýrd, en villir sál, straffast med straungum dómi.

13. Vangætslan mín er margvíslig, mildasti Jesú! beidi'eg þig: vægdu veikleika mínum! forsómun engin fannst hjá þér, fullnadar bót þad tel'eg mér, styrk veit þú þjónum þínum.

14. Eins er hér einnig öllum rétt, alvarleg kénníng fyrisett, ord Guds elski og læri: tekin innvortis ebli géd, einard'eg játníng líka med, ávext bid ytra færi.

15. Biskups þjón einn, í bræði þó, blessadann Jesúm púster sló — svó þad Ritníngin segir — hógværlegt andsvar Herrann gaf. Honum, sál mín! þad lær þú af, um sakleysi þitt ej þegir.

16. Hvart samvitskan Adam sló, skiann kinnroda fékk hann þó, í fyrsta falli sínu, þessvegna Jesús heggid hast, hlaut ad lída og rodna fast, allra fyrst í hans pínu.

17. Dróttinn Jesú! eg þacka þér, þetta leidst þú til frelsis mér; eg bid ástsemi þína: samvitsku slegin seida skjæd, ó sálu minni þú mýk og græd, burt tak þú blygdun mína!

# II. Sálmur.

## Um afneitun Péturs.

Lagid er: Dagur í austri öllu.

Gudspjalls historían getur; gripinn þá Jesús var; öllir senn utan Pét-

ur, yfirgáfu hann þar, og lærisveinn einn annar, álengdar gengu hljódt, Herrans braut brigdar sanna, harla dymt var at nótt.

2. Kaiphas Kennimanni, kunnugur lærisveinn, inngengur ört med sanni, úti stód Pétur einn, ambátt uppláka beidir, okendann Pétrum þá, í forsal til lýdsins leidir. Lærdóm hér finna má:

3. Lífs-jerli' ad fylgja þinum, fyrir mig, Jesú kjær! vorkynni veikleik mínum, þó verd' eg álengdar fjær, þá trú og þol vill brotna, þreyngir ad neydin vönd, reis þú vid reyrinn brotna, og rétt mér þína hönd.

4. Koleld, þvi kaldt var næsti, qveikt hafdi præla lid, Pétur med sturlun stærsta, stód hjá þeim loganu vid, ambátt hann ein sprogsetti, af sér þad heyra lét: mun þessi mann, —hún frétti—med Jesú af Nazareth?

5. Hann neitar hradt ad bragdi, hræddur vid ordin bist, þann sig ei þeckja sagdi; þá gól nú haninn fyrst; atlad sér út ad týma, ófiur þerna hann sá, talar í annann tíma, til þeirra' er stódu hjá.

6. Af Nazareth nú er þessi, nýkominn Jesú med, hinnar gèd trú' eg það hvessi hverr madur spyrja rèd: ert þú einn af hans sveinum? en Pètur neita vann; sagdi med eidi einum: aldrei þeckta eg hann.

7. Þridja sinn þar til løgdu, þjónar Kaiphas's beit, málfærid sumir søgdu, segir til hverr þú ert; frændi Malchus's rèd mæla: mund' eg þig ecki sjá—get eg síst grím mig tæla—í gardinum Jesú hjá.

8. Pètur med bljúgu bragdi, brádlega sagdi: nei! sór sig og sárt vidlagdi, svoddann mann þeckti' hann ei. Gløggt þegar gjørdist þetta, gól haninn annad sinn. Sút mátti sorgum letta, sút flaug í brjóstid inn.

9. Sál mín! þèr. fári forda, frekslega voga síst, án leyfis Drottins orda, óstyrkt er holdid víst, þykist þú stødug standa, stilla þinn metnad þarft; hverr sèr vogar í vanda, von er sá falli snart.

10. Ádur í aldingardi, óhræddur Pètur var, karlmennsku huguirinn hardi, hans sig auglýsti þar; andvyrd ambátt hann

hrelldi, ofmjeg því skélfast vann, frá sannleik sídan felldi, sama þig heyda kann.

11. Kol=eldi qveikium jafnast, kitlandi veraldar prjál, þrælar syndanna safnast, saman vid losta bál, fullir med fals og villu, fordastu þeirra glis, ætíd er med þeim illu, einføldum búid slis.

12. Ambátt med tygldu bragdi, er þessi verøld leid, mørgum mein=snørur lagdi, mjøg á spott=yrdin greid; þýid med prætum sínum, þjóna Guds lastad fær; styrk mig med mætti þínum, mót henni, Drottinn kjær!

13. Eptir afneitun eina, ei vildi Pétur gá, hugdi hann braut sér beina, búna þeim solli frá. Þá kom eitt ødru verra: umkringdu þrælar hann, afsór sinn sæla Herra, sér og formæla vann.

14. Hægt er hverjum ad sofna, í hættu og vanda=spil, forvitnis dælskan dofna, dregur þar margann til; ógjæfu gildran þraunga, greip skjótt þann kunni ad ná, útkomu von fékk enga; ad því í einu gá.

15. Opt má af máli þekkja, manninn hverr helzt hann er, sig mun fyrir sjálfann

blekk=

bleckja, so med lastmælgi fer, gódur af gèdi hreinu, gódordur reyniſt viſt, fullur af illu einu, illyrdin ſparar ſiſt.

16. Hriggileg hrøſun heudti, heilagann Drottins þjón, ſyndin mjøg ſárt hann ſrenuti, ſálar var búid tjón; hvad mun eg máttar naumur, mega þá ſtandaſt vid, vangætinn, veſæll og aumur, vjelum og hreckja ſnid?

17. J verolldar vondſku ſolli, velkiſt eg, Jeſú! hér, falli þad opt mér olli, óſietugt holdid er, meguar ej mót'ad ſtanda, min hreyſti náttúrlig, láttú þitt ljés og Anda, leida og ſtyrkja mig!

## 12. Sálmur.

### Um Péturs epturhvarf.

Lagid er: Kom Andi heilagi.

Pétur þar ſat í ſal, hjá ſveinum inni, tvenunt hafdi hana-gal, heyrt ad því ſinni.

2. Bûinn var þriſvar þá, þvert hann ad neita, ſér Jeſúm ſælann frá. Sorg má þad heita.

3. Drottinn vor veik sér við, víst um það gétur, ljúfur með líknar síð, og leit á Pétur.

4. Strax flaug í huga hans — hvað þó síst varði — Lausnarans orð og ans, í aldingardi.

5. Blygðadist brádt við það, bíjést fullt af trega, gékk út úr greindum stað, og grét beisklega.

6. Sjá þú með sanni trú, sál mín ástkjæra! hvað framar hefir þú, hér af að læra.

7. Hátt galar haninn hér, í hvers manns gèði, drýgdar þá syndir sjer, sem Pétur skéði.

8. Sárlega samvitskán, sekann áklagar, innvortis aumann mann, ángrar og nagar.

9. Fær hann sig fráálsann síst, þó finnist hrellíngur, sem fugl við snúníng snýst, þeim snaran heldur.

10. Vikja þó vilji hann, frá vondsku hætti, orka þvi ecki kann, af eigin mætti.

11. Upp þó sér ætli brádt, aptur að standa, fellur hann þegar þrátt, í þýngri vanda.

12. Lögmál Guds hrópar hátt, hanagal annad, segir og spir þrátt, hvad sé þér bannad.

13. Pad þölngar, þrúgar med, þad slær og lemur, sorgandi syndugt géd, særir og kremur.

14. Pad verkar sorg og sút, þeim seka manni, hjálpar þó engum út úr synda banni.

15. Holdid þar þrjótskast vid, og þykir illa, eykst á þann synda sid, svik, hræsni og villa.

16. En Jesú álit sklrt, anda Guts þýdir, sá gjörir hægt og hýrt, hjartad um sídir.

17. Lætur hann legmál bist, lemja og hræda, eptir þad fer hann fyrst, ad stída og græda.

18. Ord Jesú edla sætt, er hans verkfæri, helzt fær þad hugann kjætt, þó hrelldur væri.

19. Hann gefur hreina trú, hann fallinn reisir, hann veikann hressir nú, hann bundinn leysir.

20. Ei er í sjálfs vald sett, (sem nockrir meina), yfirbót, ydrun rétt, og trúin hreina.

21. Hendi þig hrefun bráð, sem helgann Pétur, undir Guðs áttu náð, hvert ydrast g'tur.

22. Heimska er versta víst, vid það dyljast, þú munir þá þér lýst, vid þrautir skiljast.

23. Ef Jesús ad þér snýr, med ástar hóti, líttu þá huga hýr, honum á móti.

24. Gráta skalt glæpi sárt, en Gudi trúa, elska hans ordid klárt, frá illu snúa.

25. Ohægt er ydran tæp, ad því skalt hyggja, ef þú í gjørdum glæp, girnist 'ad liggja.

26. Pétur þá formerkt fékk, fall-hrefun slíka, úr synda-salnum gékk, svo gjør þú líka.

27. O Jesú! ad mér snú, ásjónu þinni, sjádu mig særdann nú, á sálu minni.

28. Pegar eg hrasa hér, — hvad mjeg opt sannast — bend þú í miskun mér, svo megi'eg vid kannast!

29. Opt lít eg upp til þín, augum grátandi; líttu því ljúft til mín, svo leysist vandi!

# 13. Sálmur.

## Um Kaiphasar Dóm.

Lagid er: Jesús Guds Son eingetinn.

Forlngjar Presta fengu, fals-vitni mørg tilsett; fúslega fram ad gengu, fullir med svik og prett; samhljóda urdu eigi, uppdiktad margt þó segi, Jesús þá þagdi sljett.

2. Lær þú, ef lygum mætir, lífs-reglu, sál mín! hér, med forsi' og þjóst ej þrætir, þrálega svo tilber, hógvær þøgn heiptir stillir, heimskordur sannleik spillir, opt fyrir sjálfum sér.

3. Hirdt aldrej hvad, sem gyldir, ad hætta'á hjátt mál, hvert verja' edur sækja vildir, verdur-þad mørgum tál; munnur sá laungum lygur, frá luckn' og blessun húkgur, hann deydir sína sál.

4. Sannleiks vitni þó segi, sekann mig Gudi hjá, óttast þarf eg nú eigi, afsøkun hef eg þá; ljúgvottá lygi megna, leid Jesús minna vegna, klegun mig keypti frá.

5. Kaiphas frétti fyrstur, falsklega Herrann ad: sjálfur hvert sé hann

Kristur? og svo enn framar qvad: vid sannann Gud eg þig særi, ef Sonur hans eitu' þinn kjæri, segdû oss satt um þad.

6. Jesús játar ad stundu, jafn-framt því svo nam tjá: Son mannsins sjá þeir mundu, sitja þadan í frá, til Kraptarins hægri handar, og hèr eptir komanda, skjærasta skÿi á.

7. Kennimann reif sin klædi, qvad: slikt Gudlastan er! adspyr med égna brædi: um þad hvad haldid þèr? allt Rädid undirtekur: er hann vist dauda sekur, svoddan sampyckjum vèr,

8. Jesús ei ansa hirdti, ádur þá logid var, Guds Nafn þó gjarnan vyrdti, gaf því Kaiphas' svar; lygd heims þó litid sætir, Lausnarans dæmis gætir, leita Guds lofsdÿrdar.

9. Hygg ad og herm hid sanna, hvenær, sem til er reynt, hrædst ei hótanir manna, haldt þinni játning beint, gæt vel ad geymir þetta, Guds ord og trúna rètta, medkendu ljóst og leynt.

10. Kaiphas's logsegu leida, lært hafa margir enn, hvad sem hefdsingjar breida,

þinir ályktа senn, vinskap sig villa láta, viljandi raungu játa; fordist þad fróm- ir menn!

11. Sú er mín huggun sama, sem þín var, Jesú minn! kvoisinn þá ad vill ama, ofsókn og hörmúng stinn, hjá þinni hægri hendi, hér hó ad lífid endi, fagn- adar nægd eg finn.

12. Þér til Gudlsfun lagdi, ljúg- andi Kénnimann, danda sekann þig sagdi. Sannlega úrskurd þann, átt' eg ad heyra þ...dur, hardt med réttu sakfelldur, víst og nóg til þess vann.

13. Andlegt vald einum rómi, úrskurd- ar daudann þér; Drottinn í nádarsdómi, dæmir því lífid mér. Þ...cka eg eilífu þinni, þú keyptir sálu minni, frelsun og frelsi hér!

# 14. Sálmur.

## Um þjénanna spott vid Krist.

Lag id er: Skaparinn stjarna Herra hreinn.

Eptir þann dóm, sem allra fyrst, and- legir dæmdu'um Herrann Krist, hafa þeir, þolad þá var nótt, þegar til hvíldar gengid skjótt.

2. Drottinn vor eptir þreyttur þar, þrælum til gætslu fenginn var; gjørdi ad hönum gis og dár, gudlausra manna flockur þrár.

3. Hádúng, spottyrdi, hróp og brígsl, hverr lét med ødrum gánga á víxl; hræktu og slóu Herrann þar; þann þó á medan bundinn var.

4. Sjá þú og skoda, sála mín! saklausa lambsins beiskú pín, hugsa vandlega um þad allt, af þessu hvad þú læra skalt.

5. Hann, sem ad nætur-hylld og ró, hverri skëpnu af miskún bjó, í sinni ógna eymda stærd, engann kost fëck á neinni værd.

6. Hylldar-nótt marga hef' eg þád, Herra Jesú! af þinni nád; quøl þín eymdum mig keypti frá, kannast eg nú vid gædsku þá.

7. Nær, sem eg reyni sorg og sótt, seinast atkëmur daudans nótt, nætur-quala, sem neyddu þig, njóta láttu þá, Jesú! mig.

8. Samvitsku slög og Satans háð sefi, Jesú! þín blessud náð, ofbod daud

 ans

áns og andláts pín, aftaki og mýki gæ, skin fin!

9. Myrgur — og víst það mak'egt er — nieg. þessum skáltum fo:mæler, þó finn-ast nocktir hér í heim, að þegnun allri tikir heim.

10. Hvað giöra þeir, sem hér á jörd, hafa að spotti Drottins ord, lifa í glæpum ljóst til forsns, lasta og forsmá þjóna hans?

11. Sá, sem Guðs náð og sann-leikann, sjer, þeckir, veit og skynja kann, kukt og sjölkingi kynnir sér, Kaiphas's prælum verri er.

12. Soninn Guðs ecki þeckiu þeir, því syndga-hinir lángtum meir, sem kall-ast vilja kristnir best, Kristum þó lasta allra mest.

13. Hræsnarar þeir, sem brecki' og synd, hylja þó undir frómleiks mind, lík-jast þessum sem Lausnarann, lomdu blind-andi og spjodu hann.

14. Hverjum, sem spott og hæðni' er kjær, hann gengur þessum selskap nær, so smán gudrækins fátæks manns, fyr-ielitning er Skaparans.

15. O! vesæll madur! ad því gá;
eptir mun koma tími sá, sama hvad nidur
sáðir hér, sjálfur án efa upp þú skér.

16. Ei hér á jørd' er þróp og háð,
hædni' og gudlasti nidur-sád, uppskorid
verdur eilíst svó, agg og forsmán í helvíte.

17. Ætla þú ecki, aumur mann! af-
komast muni straffslaust hann, sem Son-
inn hefir hér hædt og spjad, hvorsi Fad-
irinn uppá þad.

18. Hvad Jesús nú um nætur-skeid,
naudstaddur hér af mønnum leid, óguðs-
legur um ei'ífð þá, af illum djøflum líða má.

19. Ókenndum þér, þó aumur sé,
ald ej tillegg þú hád né své, þú veitst
ei hvern þú hittir þar, heldur enn þess-
ir Gydingar.

20. Sjálfann slær mig nú hjartad
hardt, hef'eg án efa mikinn part, af
svoddan illsku ástundad, audmjúklega eg
medgeng þad.

21. Sád hef'eg nidur synda rót, fol-
virding min er mørg og ljót; uppskéru-
tímann óttast eg, ángrast því sálin
næsta mjøg.

 22. Herra

22. Herra minn Jesú! hörmúng þín, huggun er bædi og læknìng mín, sakleysi víst þú sádir hér, sælunnar ávext gasstu mér.

23. Blód=dropar þínir, blessad sád, ber þann ávext, sem heitir nád; þann sama Gud mér sjálfur gaf, sáluhjálp mín þar spreitur af.

24. Hædþur varstú til heidurs mér, högg þín og slög mín læknìng er, aldrei mún djöfull eiga vald, á mig ad leggja synda=gjald.

25. En þér til heidurs aptur á mót, ydrast vil eg og gjöra bót, holds vilja gjarnann hepta minn. Hjálpi mér, Jesú! kraptur þinn!

## 15. Sálmur.

### Um rádstefnu Prestanna yfir Kristi.

Lagid er: Krists er koma fyrir höndum.

Mjög árla uppi vóru, Öldúngar Júda senn; svo til samfundar fóru, fyrstir þó Kennimenn, í rádslag létu leidast — líkar þad öllum vel — hvörninn þeir gætu greidast, Guds Syni komid í hel,

2. Heimtu med heiptar lundu, Herrann vorn til sín brátt, orsøk því enga fundu, allir senn mæltu hátt: seig oss, ef ert þú Kristur, einasti Son Guds sá? Grædarinn gædsku lystur, gaf andsvar þar uppá:

3. Þó ydur eg það segi, ecki samt trúid þér, andsvarid mér og eigi, ef eg spyr nockurs hér; Mannsins Son sjáid sitja, sem hjá Guds hægri hlid, í skýi mun einninn vitja, aptur med dýrdar sid

4. Ertú Guds Son, þeir søgdu! svaradi Drottinn: já! djarfir þann dóm á løgdu: dauda-madur er sá. Uppstódu strax ad stundu, stríd þeim í hjarta brann, Frelsarann fjøtrum bundu, færdu Pilató hann.

5. Hér máttu, sál mín! sanna, svo gengur það til ofst, ástundan illvirkjanna, umhyggju vantar síst, árla þeir blindi bregda, binda fast øll sín rád, klóklega hreckjum hegda, hverr, sem þess fengi gád.

6. En þú, sem átt ad vera, árvalinn Drottins þjón, verk hans og vilja gera, og varast þitt sálar-tjón, andvara eng

ann hefir, umhyggjulítill sjest, vid glis heimis gálaus sefur. Gud nádi svordann brest!

7. Margir upp árla rísa, ei gèta sofid vært, eptir aud heimsins hnýsa, hvörs gagnid er þeim kjært; sálin í brjósti sofnud, sýnist ad mestu daud, til allra dygda dofnud, sem Drottinn helzt þo baud.

8. Forsjónar verk-menn vísir, víngardi Drottins í, fyrst þá dags-ljóminn lýsir, ljúst bid eg gjæti ad því, um sitt embætti hyggi, árla gjørd bænin sè, ydjulausir ei liggi, í líkamans gjállífe.

9. Haturs-menn Herrans vaka, hugsandi ad giøra tjón; eptir því áttu ad taka, ef ertú hans tingda-þjón, viljir þú vid þeim sporna, og varast þeirra hád, árla dags alla morgna, vid ord Guds haldtú rád.

10. Þenk nú í þínu hjarta, þar nærst í annann stad, hvar um Herrann réd qvarta, hyggja máttú þar ad: ordinn hans ecki treystu, íllgjarnir Júdar þeir, úr spurníng engri leystu, æ því vestnudu meir.

11. Hverr trúir nú hardt þo hóli, Herrann syndugum lýd? all fæstir inna á

móti, ydrunar svorin blíd; hirtíngar hjálpa ecki, heimur vestnandi fer, blindleikinn trú'eg oss blecki, búid straff nálægt er.

12. Víst er eg veikur ad trúa, veitstu þad, Jesú! best, frá syndum seinn ad snúa, svoddan mig! ángrar mest; þó framast þad eg megna, þínum ordum eg vil, treysta og gjarnan gégna; géf þú mér nád þar til!

13. Þar næst ad þessu gjætir, það er og lærdóms grein: ef þú óretti mætir, afsakun dugir ei nein, hafdu þá bidjandi hýra, Herrann mun til þín sjá, lát þolgæds dæmid dýra, Drottins þig hugga þá.

14. Mér er, sem í eyrum hljómi, úrskurdur Drottins sá, árlæd efsta dómi, upp þegar daudir stá, afsökun ei mun stoda', andsvör né spurníngar, sá stendur víst í voda, sem verdur sekur þar.

15. Hér er nú kostur ad heyra, Herrann taland'í nád, opni, Jesús! mitt eyra, svo ad þol fengi gád; hógvær vors bata bídur, blessadur þessa tíd, annars heims er hann skrídur, öllum forherdtum lýd.

16. Árla árskurdinn lagdu, á þig Gydíngar þó, Jesú! og sekann segdu, seldu þig Pilatò. Árla á efsta degi, afsakun gyldir sú, til dauda'eg dæmist eigi, Drottinn! þess minnist þú!

17. Árla dags uppvaknadur, ætíd eg minnist þín, Jesú minn! hjálpar hradur, hugsa þú æ til mín; árla á efsta dómi, afsekun vert þú mér, minnstu þó, Frelsarinn frómi! hvad fyrir mig leidstu hér.

## 16. Sálmur.

### Um Júdasar ydrun.

Lagid er: Konúng Davíd, sem kjenndi.

Júdas í girndar gráti, af Gydíngunum fyrst, þrjátíu peninga þádi, hvö sveik hann Herrann Krist, ljóst þegar lita vann, Drottin var nú til dauda, dæmdur og þúngra nauda, ydradist eptir hann.

2. Greidt i Musterid gengur — greinir svo Ritning frá — um silfrid finnst ei lengur, senn vill þad Prestum fá, sagdi, med sárum mód: ó! hvad

eg gjørdi illa, þá yfir mig kom só villa, ad sveik eg saklaust blód.

3. Lidsemd Prestarnir løgdu litla, sem von var ad, hardlyndir honum søgdu: hvad egum vér med þad? þú mátt einn sjá um þig. Silfrinu á gólfid grytti, geck þadan, mjøg sér flýtti, og hengdi sjálfann sig.

4. Rádstefnu Herrar héldu, hættir þar seinast vid, fyrir akur sjálfir seldu, silfrid Leir-kera sinid. Adur sagt um þad var, í spádóms søgnum sønnum, sá var vegferdar-mønnum, gefinn til greftrunar.

5. Sjá hér, hvad illann enda, ótrygd og svikin fá; Júdasár líkar lenda, leiks-brödur sinum hjá, andsko inn illsku flár eyn hefir snøru snúna, sviggalega þeim tilbúna, sem fara med fals og dár.

6 Otrú sinn eginn Herra, ætíd um hálsinn sló, enginn feck af því verra, enn sá meinlausum bjó forrædi, fals og vél, Júdas því henging hendti, hann følskum til sín bendti, eins og Achitophel.

7. Fé-girndin Júdam feldi, fyrst var hans adtekt sú, Guds Son Gydingum

seldi, gleymdi þvi æru'og trú, svo til um sidir gêck, kastadi keyptum audi, þá qvaldi sorg og daudi, huggun alls einga fêck.

8. Undir-rót allra lasta, ágirndin koll-ud er, frómleika frá sér kasta, fjárplógs-menn ágjarner, sem freklega elska féd, audi med okri safna, andlegri blessun hafna, enn setja sál' í ved.

9. Annadhvert er í vonum, audur-inn fagur nú, hafnar þér, ellegar hon-um, hriggur burtkastar þú, þá daud-inn þreyngir ad, ágirndin óttæpt svelgir, af því sálina velgir, í koldum qvala-stad.

10. Falsi og sjégirnd rángri, forda þér, sál mín! blíd, svo mætir ei ógn né ángri, þá adfer daudans tíd, vyrd lít-ils veraldar plóg, hverr, sá sér lynda læt-ur, þad lénar Drottinn mætur, sá hefir alls nægta nóg.

11. Opt Jesús ádur hafdi, áminn-ing Júdas gjört, hreckvísin hjartad vafdi, hann héldt þad einkis verdt, nú kom þar einnig ad, tilsøgn hatadi hreina, hugg-un fêck því ei neina, varastú vísi þad.

12. En hvad framleiddi'hann illa, ádur liferni sitt, þessi þó var hans vilja, verri'enn allt annad hitt, ad hann ervænting med, sál' og lif sett'i vanda, Synd á mót' heilegum Anda, held eg hér hafi skéd.

13. Í Drottni' ef viltú deya, Drottni þá lifdú hér, til ills lát ei þig teygja, ord Guds sé kjærast þér; sæll er sá svo vid býst, en ef þig ófall hendir, aptur í tíma vendir, undandrag ydrun síst,

14. Brot þín skalt blíságur játa, og bid þó Gud um náð, af hjarta hriggur gráta, en heilnæm þyggja ráð; um fram allt hugsa þó: Son Guds bar þínar syndir, og svo þú miskun finndir, sakl' us fyrir sekann dó.

15. Drottinn! lát mig ei dyljast, djarflega syndir vid, þó hér um stund megi hyljast; Herra trúr! þess eg bid: nær heimi fer eg frá, örvænting ei mér grandi, ord þitt og sannleiks Andi, hjarta mitt byggi þá!

## 17. Sálmur.

### Um Leirkéra smids akurinn.

Lagid er: Fadir á himna hæd.

Svo sem fyrr sagt er frá, silfurpeninga þá, hverjir loks Júdas hrelldu, Höfud-prestarnir seldu.

2. Og keyptu einn — til sanns — akur Pottmakarans, þar mé fullt frelsi hafa, framandi menn ad grafa.

3. Þar finnst ein þýding sín, þess gættu, sála mín! af Guds ásettu rádi, um þad Zacharías spádi.

4. Likist Leirkéra-smid, líknsamur Drottinn vid, sem fyrr Esajas sagdi, sjálfur þad rétt útlagdi.

5. Af leir med lífsins krapt, lét hann mannkynid skapt, hrein kér til heidurs setur, hin ønnur lægra metur.

6. Drottinn einn akur á, er honum sátur sá, minnstú hann miskun beitir, mæddum lýd huggun veitir.

7. Jesús einn er sá mann, sem akurinn keypti hann, en hans blód-droparz gilldir, borgunar gjaldid þýdir.

8. Framandi fólkid þad, sem fèck ei neinn hvildarstad, erum vèr sorgum setnir, af syndugu edli getnir.

9. Illskunnar edlid vort, út'enda hefir gjørt, oss frá eilifri gledi, í Adams falli þad skèdi.

10. Sálin í útlegd er, æ medan dvelst hún hèr, í holdsins hreysi naumu, haldin fángelsi aumu.

11. Daudinn med dapri sút, dregur um sídir út, hana, þá hreysid brotnar, holdid í jørdu rotnar.

12. Eins og útkastad hræ, (ef eg rètt skynjad fæ), hjálparlaus sál má heita, hvildar kann sèr ei leita.

13. Hættu og hørmúng þá, Herra minn Jesús sá, ønd vora'af ást og mildi, úr útlegd kaupa vildi.

14. Fadirinn falt þad lèt, fridarstad sálum hèt, ef Sonurinn gjald þad greiddi, sem Guds rèttlætid beiddi.

15. Opnadi sjódinn sinn, Sonur Guds, Jesús minn! húdstrýktur, qvalinn, krýndur, á krossi til dauda píndur.

16. Blóð-dropar dundu þar, dýrasta gjald það var; keyptann, akur því eg-unn, óþræddir deya megum.

17. Hér þegar verður hold, hulið í jarðar mold; sálin hrigðarlaust hvílir, henni Guðs miskun skýlir.

18 En þá skalt að því gá: akursins greftrun þá, engir utan þeir fengu, í Jerúsalem gengu.

19. Kristnin Guðs hér um heim, heitir Jerúsalem, í hana innkomast hlýtur, hverr, sem miskunar nýtur.

20. Í henni hverr einn sá er, á Jesúm trúir hér, skirður og alla vega, ydrun gjerir dagloga,

21 Oqvöldin er eg nú, af því eg hef' þá trú: miskun Guðs sálu mína, mun leka í vöktun sína.

22. Hverninn sem holdið fer, hér þegar lífið þver, Jesú! í umsjón þinni, óhætt er sálu minni.

23 Eg lofa, Lausnari! þig, sem leystir úr útlegð mig, hvild nú eg nýdarsþakri, nú í miskunar akri.

24. Þú gafst mér akurinn þinn, þér gef eg aptur minn, áſt þína á eg ríka, eig þú mitt hjartad líka.

25. Eg gef og allann þér, æ medan líf'eg hér, ávertinn ydju minnar, í akri kristni þinnar.

26. Eins bid eg, aumur þræll: ad unnir þú, Jesú sæll! lidnum líkhama mínum, legſtad í akri þínum.

27. Hveiti korn þecktú þitt, þá uppris holdid mitt, í bindini barna þinna, blessun lát þú mig finna!

## 18. Sálmur.

### Um Gydinganna áklaganir gegn Kristi.

Lagid er: Sælir eru, þeim ſjálfur Gud.

Árla, sem gleggt eg greina vann, med Guds Son bundinn fara, Prestarnir, svo ad píndiſt hann, til Pílatum Landsdómara; í þinghús inn, þad sama sinn, sagt er þó enginn kæmi, svo ecki meir, saurgudust þeir. Sjá hér hræsninnar dæmi.

2. Inngång um húss-dyr Heidíngjans, héldu þeir synd bannada, en saurgast á blódi saklauss manns, sýndist þeim enganη skada. Heims børnum hér, ó-virdíng er, aumstøddum hjálp ad veita, Guds ords forakt, ágirnd og prakt, engin misgjørd skal heita.

3. Pilatus, sem þad formerkt fíck, fyrst ei þeim metnad sætti, án dvalar sjálfur út því géck, embættis skyldu gætti, fékargift þá, vill fulla fá, framborna af þeirra munni, dár-yrdin fljót, drambsemi mót, Dómarinn finna kunni.

4. Lát þér ei vera afmán ad, ef þú vilt frómur heita, af Pilats ljóst ad læra þad, sem loflegt er eptir ad breyta, rángætid hans þess heidna manns, haldt þér minkun tvøfalda; þeim midur fer, enn honum hér, hverr vill þann kristnin halda?

5. Alltid stórt og hefdar-hátt, hrædast skyldir þú ecki, sannleikans gæta ætíd átt, engin kjass-mál þig blecki. Ærugirnd ljót, hofmódug hót, hæfir sist Yfir-

mønn-

mönnum, dramblátum þar, þú gef andsvar, þó byggt á rekum sennum.

6. Oldúngar Júda allra fyrst, uppbáru sök þresalda: fólkinu þessi fráskýr víst, fyrirbýdur ad gjalda, Keisarans skatt, þad segjum vèr satt; sjálfur vill Kóngur heita; og Kristur sá, sem koma á, qvittun og frid ad veita.

7. Hèr koma fram þau réttu rök, rædu og þánka minna! þèr, Jesú! gèfin var þresöld sök, þad kann eg gleggt ad finna; þresaldleg sekt, mig þjádi frekt, þar um eg klagast mætti; þresalda syngd, og þúnga lyngd, þú leidst med seginum hætti.

8. Fráskilid Gudi allt mitt er, edsid og líf sánenta, edrum því gèf eg opt af mèr, til dæmi svo ad breyta; en hèr á mót, med elsku bót, oll Guds börn rètt því trúa, frá bölvun, deyd, djöfli og neyd, Drottinn red lýdnum snúa.

9. Gudi átt'eg ad greida fri, gjald, hlýdni og þackar-skyldur, rángleg hef eg haldid því, hendlad sem þræll ógyldur; audsveipyin þín, fyrir ollum skín, hátsemdar Herrann kjæri! þú baudst-

gæfed, gafst sjálfur með, hvad Guds og Keisarans væri.

10. Sannlega hef' eg brokad mér, hærra enn vera skyldi, bod og skipun mlus Herra hér, haldid í minnsta gyldi, Köngdöm í heim, og heidri þeim, hafnadir þú og slýdir, hátignin þín, á himnum skín, hún mun birtast um síðir.

11. Rægdur varstú fyrir rånga sök, réttláti Jesú mildi! uppá þad öll mín illsku rök, afplånud verda skyldi; áklagair sú, sem þoli'r þú, þess bid eg, Herrann fróml! sé mitt forsvar, þá finnst eg þar, fyrir þeim stránga dómi.

## 19. Sálmur.

### Játníng Krists fyrir Pilatúsi.

Lagid er: Mitt hjarta! því svo hryggist þú?

Gydingar hefdu' af hatri fyrst, hardlega klagad Jesúm Krist, sem ádur sagt er frá, Landsdomarinn gjördi' adgá, gleggt hvad þyddi frambu'dur sá.

2 Áklegun fyrsta andleg var, um þad Pilatus sinnt' ei par, ennur um skyldu-skatt; hann visfi vel þeir sögdu'ei satt, svo'dan málum þegjandi hratt.

3 En sem þeir nefndu Kónginn Krist, kom honum þá til hugar fyrst, hvad ádur heyrdi' og nam, af Júdum mælt um Messíam, ef mætti ské þad kjæmi nú fram.

4. Pílatí sinni' í sumum finnst, sem um Guds dýrkun hugsa minnst, hefdíngjum hræsna tídt, undi' sáta frelsid frídt, fjárplégs gjarnir rækja nú lítt.

5. Hirdstjórinn spurdi Herrann þá: hvert hann sé Júda Kóngur sá? en Jesús aptur tjer: talar þú svo af sjálfum þér, eda segdu adrir þvílíkt af mér?

6. Þá vard Pílatí pelsid kaldt, þig hatar — sagdi' hann — fólkid allt, hvad íllt hefir þú gjert? aptur Jesús ansar bert, er þad nærsta þenkíngar verdt:

7. Mitt ríki' er ecki hedan af heim, hardt mundi annars móti þeim, strída minn maktar her, sem nú mig seldu' í naudir þér, svo nædu ecki Gydíngar mjer.

8. Pílatus aptur ansa vann: ertú þó Kóngur? sagdi hann. Játadi Jesús því, hingad bar st eg heiminn í, ad herma skyldi' eg sannleikann frí.

9. Hver

9. Hverr af sannleiknum sjálfur er, sá mína röddu heyrir hér. Hæðnis-svar hinn til sann: hvað er sannleik-ur? sagði hann; svo gêck burt með úr-skurðinn þann.

10. Hér máttú, sál mín! heyra fyrst, Herrann Jesús er Kóngur vïst, þó ecki' að heimsins hátt; svoddan vel þú athuga kitt, það eykur gledi hjartans þrátt.

11. Kóngs tign þ'n, Jesú! eilíf er, allir þyggja sín veld af þér, höfdingjar hér um heim, þú ljenar, gêfur, lánar þeim, löndin, ríki, metorð og sæm.

12. Fyrir þinn krapt og frelsis bönd, forsvara Kóngar rïki'og lönd, sem er þeim undirlagt; en móti djöfli' og dauðans makt, dugir engin höfðingja prakt.

13. Þú hefir sigrað synd og deyð, sjálfann djöful og vítis neyð, báðir eitt hérlegt stríð, allann svo þinn lýðstir lýð. Lof sé þér um eilífa tíð!

14. Audlegt þitt ríki'og eilíft er, orð sannleiks þvi rétt stjórnar hér, þinn veldis vopndur sá, óvini slær mér alla frá, í þeim krapti sigra eg þá.

15. En

15. Eu fyrst þitt ríki andlegt var, um það heimurinn sinnti'ei par, þann sann ei bo'móð sinn, hjá þér; Jesú Herra minn! hatadi allann góðvilja þinn.

16. Undrast því, sál mín! ecki þarft, þó adkast veraldar líðir margt, þar um þér þenkja ber, ertú nú í útlegð hér, annars heims þitt födurland er.

17. Sannleika-Kóngsins sannleiks-raust, sá þarf ad elska hræsnislaust, sem er hans undir-mann, því slægd og lýgi hatar hann, hreinhjörtudum miskunar ann.

18. Ef þú, sál mín! í Guds gledd, girnist ad heyra Kóngsins rødd; gættú þá gjörla þér, hvad boda Drottins þjónar þér, þeirra kénning raustin hans er.

19. Ransaka, sál mín! ord þad ert, ad verdur spurt: hvad hefir þú gjört? þá Herrann heldur dóm, hjálpar engum hræsnin tóm, hrein sé trú í verkunum fróm.

20. Eu sekum þess þú ei sakl'us ert, sjálfa spýr þig: hvad hefir þú gjört? um hvern umlidinn dag; rétt'un gjör og grát þinn hag, Guds Son bid þad færa í lag.

21. Allt hef'eg, Jesú! illa gjört; allt þad' ad bæta þú kominn ert, um allt

Fyrst eg qvittur er; allt mitt líf skal þjóna
Þér, þar til, bið eg, hjálpa þú mér!

## 20. Sálmur.

Annnur áklögun Gyðinga fyrir Pílatusi

Lagið er: Ovinnanleg borg er vor Guð.

Pílatus hafði próf nú, plstar, sok
Jesú gef a, eljen vyrtist honum
Kóngs tign sú, þá Kristur sannleik réð
nefna, heims sannleik heidra lézt, hvörs
Guðs sannleik mest, sem mindin elska ber, orð
Drottins látum þér, kjærast þó allra efna.

2. Þ. fnóðt þá gánga Jarlinn réð,
til Júða út oð bragði: enga sek þessum
manni med, má eg finna, hann
sagði: Gyðingar heldur hart, Herrann
klögud' um margt, med æði ógn
og dramb, eins rett sem meinlaust
lamb, Lausnarinn ljúfur þagdi.

3. Hann hefir uppæst lýðinn lands,
lengi mjög víða kénndi, frá Galílæa'
og svo til sanns, um síðir allt hingað
vendi. Pílatus hugði hér, hrinda heim
vanda' af sér, Heródes hafði því, hirds

skjórn þeim parti í, til hans því Herranu sendi.

4. Fyrir mig Jesú! þoldir þú þjáns ingar og kveisku þínn, hjartad gledst, því eg heyri nú, hvörsu saklevsi þinn; syndin lá sart á mér, sek fannst engin hjá þér, svo er saklevsi þitt, sannlega ordid mitt, vid málefni tókst þú mínn.

5. Legmál Drottins þá hefndum hardt, hótar mér eptir vonum, aptur minn Jesús ansar snart: engin sök finnst med honum, saklevsi mitt til sanns, segi eg nú ordid hans, engin áklegun fljót, o ka skal neitt á mót, mínum þolslyndis þjónum.

6. Ouytju-hjal og mælgin mín, mér tilfalls koma ætti; en, Jesú! blessud þegnin þín, þad allt furir mig bætti, skylda min aptur er, eptir ad breyta þér, þeigjand' í þydri trú, þola, nær líd eg nú; þerf væri þess eg gætti.

7. Pilatus meinti mannvits-slægd, mundi óbrygdul standa, koma vill því med kjænsku-nægd, Kóng Heródi í vanda. Kunna þá adferd enn, allmargir veraldar menn; bid Gud, og gæt þín vel,

gjarn

gjarn er heimur á vël, gálausum svikin granda.

8. K oss gångan, Jesú! þessi þín, þar fyrir eflaust skëdi, svo hvílast mætti sálin mín, sætt í eilífri gl di. Embættis ómak lángt, opt þó meir fimaist strángt, til lofs og þóknunar þër, það vil eg gjarnan hër, líða með ljúfu geði.

## 21. Sálmur.

### Um Heródesar forvitni og hvíta klæðið.

Lagið er: Jesú Krísti! þig kalla'eg á.

Hegar Heródes, Herrann sá, hann varð mjøg glaður nærsta, af honum heyrt hafði og helzt vill fá, hans áhýnd líta glærsta, forvitinn mørgu frëtti að, sýn hold'sins kapp á lagði, með bistu brag i. Jesús tók ecki undir það, við øllum spurningum þagði.

2. Margir finnast enn hër um heim, Heródis líkar rëttir, Guðs orð er skëmt og gaman þeim, sem gleus eður nýjar frëtt:

fréttir, forvitnin holdsins hnýsir þrátt, í Herrans leyndardóma, med fýsn eí fróma, annri' skynsemi ætla'ofhátt, aldrej til skilnings koma.

3. Mannvits djúpfindni' og menta glis, margir þá vilja reyna, ad ordi Drottins þeir gjøra gis, gaman lostegt þad meina. Varastú, sál mín! vítin reynd, vyrd þú í hærsta gyldi, þá miklu mildi, alvarlega med' gódri greind, Gud vid þig tala vildi.

4. Gud gjørir ecki' ad gamni sér; glæpa-mønnum ad hóta, kals-mælgi honum og engin er, ad þú megir miskun hljóta; audmjúklega med allri gát, óttinn slíkt ad ræda, og fleiri fræda, en af þér heyrast aldrej lát, ord Drottins skulir þu hæda.

5. Heyr'eg um þig, minn Herra! rædt, í hjálprædis ordi þínu, allt 'sýnist mér þá búid og bætt, bølid í hjarta mínu, í Sakramentinu sje eg þig, svo sem í líking skjærri med nád mér nærri; ó! hvad gledur' sú ásýnd mig,' engin finnst fagun stærri.

6. Heródes fýsti var holdleg sú, hann réd forvitni ginna; en mín sála af ást og trú, andvarpar þig ad finna, lofsamleg er sú lucku-stund, þá lít eg þig, Herra Þýdi! í þinni prýdi, gef mér loksins þann fagnadar-fund, þó fyrst um sinn her bídi.

7. Þad kénnir Herrans þegnin fróm, þar nærst í annann máta: hann vill ei slnum helgidóm, fyrir hunda kasta láta, Drottinn forsmáir drambsamt geð, djarflega margs þó freisti, og frekt sér treysti, hugstoltum nidur hrinda réd, hógværa sál' vidreisti.

8. Heródes og hans hof-fólk lítt, um Herrann akta vildi, færdi hann í eitt fatid hvítt, forsmán þad heita skyldi, til Pilatum sídan sendur var; svo komst í fridar stilli, sá offinn illi, drambsöm ofundin ádur bar, óvinskap þeirr'á milli.

9. Hvítt klædid gjordi háðúng þér, Herra minn Jesú sæti! dýrdar-skrúda svo skeinktir mér, skluandi Guds rétt-læti, saklevsis merkid þetta þitt, þins Födurs gæskan hreina, þá þeckti alla

eina; hann sjer og prófar hjartad mitt, hvad sem illgjarnir meina.

10. Heilagra sálna hópur skjær, á himnum med skicknn frída, til heidurs þér, Jesú Herra kjær! hvítum klædum síg skrýda; eins hér á jørdu uvp frá því, eflaust í minning slíka, med røksemd ríka, birtust snjóhvítum búning'í, blessadir Englar líka.

11. Veittú, Jesú! þá miskun mér, meinleysis skrýdour klædi, þjóni'eg tállaust med trygdum þér, í trú, von og þolinmædi, réttlætis skrúda skartid þitt, skíni á sálu minni, þó líf hér linni, eins láttú hóldid einninn mitt, af-klædast þrjótsku sinni.

12. Forlíkast gjørdu fjandmenn tveir, þá forstú þar, Jesú! milli; eg veit, mér gafstú miklu meir, miskun og fridar-stilli, hjá Gudi Fødur, svo til sanns, sjest engin reidi lengur, né stygdar-strengur, daglega milli mín og hans, minn trúr Frelsari gengur.

13. Hvar sem ófridur hreysir sér, af hóldsins veikleik brádum, milli kristinna manna hér, móti Guds vilja'og rádum,

gäcktú þar, Jesú! milli mest, med þín-
um fridar-anda, og vaþna-vanda, hjálpa
þú, svo vér hugsum best, í hreinum kær-
leik ad standa!

## 22. Sálmur.

### Um Gydínganna krossfestíngar-óp yfir Kristi.

Lagid er: Fadir vor, sem á Himnum ert.

Frá Heróde þá Kristur kom, kallar Pilatus snjøllum róm, Gydínga lýd og ljós gaf røk, Lausnarinn hefdi enga sók, sampyckur væri og sér til þess, sjálfur Kóngurinn Heródes.

2. Sannlega Drottinn sakleysed, sjer, elskar bædi' og styrkir med, hjarta og munnur hvers eins manns, hlýtur ad þjóna vilja hans. Málefnid gott fær gódann róm, gjæt þess, mín sál! og vertú fróm.

3. Sídur Gydínga sá var þá, sakamann einn þeir skyldu fá, um Páska manninn frá pínslum fri, Pilatus átti' ad gegna því. Í frelsis minníngu úr Egyptó, aldrei baud Drottinn skoda-
en þó.

4. Sjá til, mín sál! að síðvaninn, sist megi villa huga þinn, fordastu honum að fylgja hér, framar enn Guðs orð leyfir þér. Góð meining enga gjörir stoð, gylda skal yeira Drottins boð.

5. Pilatus Júdum sagði svo: sjá-ið nú glöggt um kosti tvo, eg býð hér Jesúm ydur fram, eða mordingjann Barrabbam. Hann meinti að yrði helzt með því, Herrann frá dauða gef-inn frí.

6. Þú sér nú gleggt af þessu sið, þar, sem Drottinn er ecki með, í verki, áformi og vilja manns, verða til einkis ráðin hans; sérvitska holdsins svikul er, svo sem Pílatum skéði hér.

7. Yfir-mennirnir allra fyrst, óskuðu að Drottinn krossfestist, almúgann svo í annann stað, eggjuðu mest að biðja um það, Barabbas'a útlausn skyldi ské, skilinn Jesús frá lífi sé.

8. Veraldar dæmin varast skált, vogaðu ecki að gjöra það allt, sem Höfðingjarnir nú hafast að, þó heimurinn kalli loflegt það; ef blindur leiðir blindann hér, báðum þeim hætt við falli er.

9. Hverr þig eggjar á illverk bráð, aldrei gack þú med þeim í ráð, vinn þú þad ei fyrir metord manns, ad missa Guds náð og vinskap hans; hverigur annars bætir böl, þó bádir rati' í straff og qvøl.

10. Yfir = mønnunum er því vandt, undirsátarnir hnýsa grant, eptir því, sem fyrir augun ber, aldnæmast þó hid vonda er; hvad Hefdíngjarnir hafast ad, hinir ætla sèr leyfist þad.

11. Ill eptirdæmi' á alla grein, eru samslikt vid mylnnstein, viljir þú ver'af fári frjáls, festu hann aldrej þèr vid háls, í Guds ótta frá þèr glæpum hrind, gód vertú ødrum fyrimind.

12 Húsfrú Pilati holl gaf ráð, hefdi hann betur ad því gád; gódar qvinnur þess gæti mest, gjarnan ástundi dæmin best. Abígael sær æru' og sæmd, illa Jessabel verdur ræmd.

13. Set eg þad nú í sinni mèr, sæti Jesú! ad gjæt'ad þèr: allir hrópudu allt um kríng, yfir þig dauda'og krossfestíng, sem lamb meinlausast þagdir þú, þar af fiendur mèr huggan trú.

14. Legmálsins bølvan bitur og sterk, bannvænn djøfull og øll mín verk, þó hrópa vilji nú hvert fyrir sig, hefnd og fordæmíng yfir mig, nýt eg, minn Jesú! þín í því, frá þeirra kløgun verd eg frí.

15. Afellis dómsins ógna hróp, ytstu myrkranna vein og óp, aldrei mun' komi' ad eyrum mín, eyrun blessud fyrst heyrdu þín, kall og hárevsti kríngum sig, frá qvøl og ángist þad frelsar mig.

16. Hrópar nú yfir mèr himin og jørd, helgun, frid, nád og sáttargjørd, hvert heldur eg geng út eda inn, í þínu nafni Jesú minn! bænar-hróp mitt í hreinni trú, himneskum Gudi þócknast nú.

17. En þèr til heidurs alla tíd, Englar Drottins og kristnin fríd, hrópar nú bædi á himni og jørd: Hósanna, lof og þackargjørd! Amen segir og uppá þad, ønd mín gladvær í hverjum stad!

## 23. Sálmur.

### Um Krists Húdstrýkíngu.

Lagid er: Ofs, lát þinn. Andar styrkja.

Plágus Herrann hærsta, húdstrýkja lætur þár. Nakinn vid stólpann

stærsta, streingdur þá Jesús var, stríðsmenn með svipum brektu hann; sál mín! hér sjá og skoða, hvað Sonur Guðs fyrir þig vann.

2. Helgasta holdið fríða, frá hvirfli iljum að, Drottni varð sárt að svíða, svall allt af benjum það, hverr hans líkama limur og æð, af sárum sundurflakti, sú hyrting mjøg var skjæð.

3. Blessaður dreyrinn dundi, Drottins lífs-æðum úr, sem regn það hraðast hrundi, himins í dymmu skúr, blánaði hold enn bólgnaði und, Sonur Guðs sárt var qvalinn, saklaus á þeirri stund.

4. Eg var, sem fjøtrum færdur, fángelsi þúngu í, á ønd og samvitsku særdur, syndin mín olli því, sú dauðleg sálar sóttin hér, um hverja æð út sér dreifdi, ekkert fannst heilt á mér.

5. Svipan løgmálsins lamdi, líf og sál heldur frekt, óttinn qvalanna kramdi, kominn var eg í sekt, banvænlegt orðið mitt var mein, hjartað af hrigðum stundi hvergi fékkst lækning nein.

6. Sástú þá, Jesú sæli! sár mín ó-bærilig, til lausnar þínum þræli, því

lèrstú binda þig, géckst svo undir þá grimdar qvöl, ad eg qvittadur yrdi, vid eilíft hrigdar böl.

7. Sjálfdóm minn sjálfur barstú, svo vard eg heill med því, hörmúngum hladinn varstú, frá hrigdum er eg nú frí, hegníng þú féckst, svo hefd' eg frid, benjar þínar mér bættu, bót sú þar átti vid.

8. Hjartad vill hrædslan kreinkja, med hördum sorgar sting, þegar eg gjöri' ad þenkja, um þína búdstrýking, avi! eg gaf þar efni til, þú einn galdst þrjótsku minnar, þess nú eg ydrast vil.

9. Því fell eg nú til fóta, Frelsarinn Jesú! þér, láttú mig nafns þíns njóta, nád og vægd sýn þú mér, eg skal med hlýdni heidra þig, nú og um eillsd alla, þá huggar þú, Herra! mig.

10. Gledstú, mín sál! þig grœddi, Guds Sonar heilagt blód, þó synd og sorgin mæddi, sjá! hèr er lækníng góð, nád fyrir reidi nú er vís, brot þrælsins Herrann bætti, bar því sins Födurs hrís.

11. Skoda þú skyldu þína, skírlega, sál mín! nú: Sonrinn sig lèt pína, svo læknud yrdir þú; heilbrygd þjóna þú

honum rétt, med trú, hollustu'og hlýdni, haf gát á þinni stétt.

12. Þóckniſt honum ad þjaka, þitt hold erkumſlum med, þýdlega þvi ſkalt raka, þolinmódt hjarta-géd, áſjer Drottinn og elſkar beſt; Launar'ad líkjaſt þinnum, lof er þér allra meſt.

13. Eckert má ſóma ſídur: ſi-kátur þrællinn er, þá Herrann harmqvæli lídur, haf ſlíkt í minni þér; hrigdar-mind hans er heidur þinn. Lát mig þad læra' og halda, ljúfaſti Jeſú minn!

## 24. Sálmur.

Um Purpurann og Þyrni-kórónuna:

Lagid er: Til þín, heilagi Herra Gud!

Illvirkjar Jeſúm eptir þad, inn í þínghúſid leiddu, afklæddu fyrſt og ſljótt þángad, fólkid allt koma beiddu, purpura-klædis forna ſlík, (fáſt mátti varla háđúng ſlík), yfir hans benjar breiddu.

2. Helgunar-klædid hafd' eg miſt, hlaut þvi nakinn ad ſtanda, Adam olli þvi allra fyrſt, arf lét mér þann til handa; ſynd-

ánna slík og færdist í, forsmáu og mínkun blautst af því, med hverskyns háska og vauda.

3. Burt-tók Jesús þá blygdun hér, berann því lét sig pína, réttlætis klædnad keypti mér, kann sá fagurt ad skína; atþvarf mitt jafnan er til sanns, undir purpura kápu hans, þar hyl eg misgjörd mína.

4. Þyrni-kórónu þúngri þeir, þreyngdu ad Herrans enni, bál-eldi heitum brenndu meir, bróddar sóldaud' í henni, augun hans bædi' og andlit med, allt af blódinu fyllast réd, slíkt trú' eg qvála kenni,

5. Fyrir óhlýdni Adams var, öll jördin lýst í banni, hvert því slíkann af sér bar, ord Guds trú' eg þad sanni: þessum bölvunar Þyrni-krans, þreyngt var ad höfdi Lausnarans, til huggunar hrelldum manni.

6. En Jesú hlýdni aptur hér, allri jörd blessun færir, heilnæmann ávext hún því ber; hverja skepnu vel nærir. Fyrir gudsskunnar gjörníng þann, höfgi, lost-

og prísi þann, hvad síg um þeimlun hrærir!

7. Bølvan mér yfir hefdi hêck, hôtud í legmáls brædi; en Jesús hana undir-gêck, svó aptur eg blessun nædi; Gud minn Kórónu gaf mér þar, gædsku og dýrdar eilífrar, hér og á himnum bædi.

8. Reyr-staf honum í hønd med spê, Hirdstjórans þrælar fengu, heilsudu Kóngi'og krupu'á knê, kals-ord á víxl þá gengu, reirnum hrøcktu um høfud hans, hræktu í andlit' Lausnarans, med qvala kappi straungu.

9. Þá þú gengur í Guds hús inn, gæt þess vel, sál mín fróma! bjód þú þar ecki Herra þínn, med hegdun líkamans tóma, beygdú holdsins og hjartans knê, heit bæn þín ástar-qvedja sê, hræsnin mun síst þér sóma.

10. Sjálfs míns verdskuldun sie eg hér, svoddan átt'eg ad lída, um eilífd þá, sem aldrei þver, med ógn og sárum qvída, hefdi mér ecki hørmúng þín, hjálpad, Jesú! frá þeirri pín. Blessad sê nafn þitt blídá!

11. Öll þín lægíng er upphefð mín, ástkæri Jesú mildi! heidur er mér ad háðúng þín, hverr sem mér nidra vildi, þeggin, sem leidstú, þressa mig, á himnum verd eg nú fyrir þig, metinn í mesta gyldi.

12. Medan lífs-æd er í mér heit, eg skal þig, Drottinn! prísa, af hjartans grunn'í hverjum reit, heidur þíns nafns auglýsa, feginn vil eg'í heimi hér, hlýda og fylgja'í öllu þér; lát mér þína lidsemd vísa!

## 25. Sálmur.

Um útleidslu Krists úr þínghúsinu.

Lagid er: Konúng David, sem kjenndi.

Landsdómarinn þá leiddi, Lausnarann út med sér, Gydíngum andsvör greiddi, glögglega og svo tjer: þér sjáid þennann hér! sannlega ydur eg segi, søk finnst med honum eigi, sú dauda-dóms verd er.

2 Þá gékk Jesús út þanninn, Þyrni' og Purpura bar, sagdi: sjáid hér Manninn! sjálfur Dómarinn þar;

Gydíngar gáfu svar: burt med hann, svo þeir segja, sá skal á krossi deya; ósk þeirra ein sú var.

3. Ord og ásækun gyldti, engin í þessum stad, heiptin svo huganum fyllti, hjartad vard forblindad; sídarst þeir segdu þad: ljóslega lífs-straffs krefdi, lögmálid, því hann hefdi, gjört sig Guds Syni ad.

4. Nú leg, sem ritud finnast, ráng-færdu Júdar hér, oss ber: þar á ad minn-ast, til dæmi fordumst vér, dómurinn Drottins er, hinn þó med heiptum klagi, og hreinann sannleik afsagi; sjái Valds-menn ad sér.

5. Þá eg heyri, minn Herra! hvörsu þú qvalinn varst, gjörvöll vill gledin þverra, galdstú mín nærsta hardt, því eg braut mikid og margt; en þá mér Gudspjöll greina, gleggt þitt sakleysi hreina, hjartad fær huggun snart.

6. Athuga, sál mín! ættum, útgaungu Drottins hér, svo vid rétt minnast mætt-um, hvad miskun hans veitti þér; hygg-jum ad, hann útber, Þyrnikórónu þetta

þar med Purpurann létta, blár og blóðugur er:

7. Med blód-skuld og bølvun stránga, beiskum reyrd qvala hnút, áttum vid greidt ad gánga, frá Guds náð rekin út, hrakin í helјar sút, iklædd forsmánar flikum, fráskúfud Drottni ríkum, nakin og nidurlút.

8. O synd! o syndin arga! hvad illt kémur af þér? o! hversu meinsemd marga, má Drottinn líða hér! þitt gjald allt þetta er, blindad hold þig ei þeckti, þegar þín slærd mig bleckti. Jesús miskuni mér!

9. En med því út var leiddur, alsærdur Lausnarinn, gjørdist mér vegur greiddur, í Guds nádar-ríki inn, og eilíst líf annad sinn, blódskuld og bølvun mína, burt tók Guds Sonar pína. Dýrd sé þér, Drottinn minn!

10. Utgeng eg ætid sídan, í trausti Frelsarans, undir blæ himins blídann, blessadur víst til sanns, nú fyrir nafnid hans, útborid lík mitt lídid, legst og hvílist í fridi, sál fer til sælu-ranns.

11. Dýrd-

11. Dýrdar Kórónu dýra, Drottinn géfur mér þá, réttlætis skrúdann skíra, skal eg og einnig fá, uppríſu-deginum á, hærstum heidri tilreiddur, af heilögum Englum leiddur, í sælu þeim sjálfum hjá.

12. Svo munu Guds Englar segja sjáid nú þennann mann! hvern allskyns eymd réd beygja, ádur í heimsins rann, opt var þá hrelldur hann, fyrir blód Lambsins blída, búinn er nú ad strída, og sælann sigur vann.

13. Þá muntú, sál mín! svara, syngjandi fegrum tón; lof se mínum Lausnara! lamb Guds á hærsta trón, sigur gaf sínum þjón, um blessadar himnahallir, honum segjum vér allir, heidur, med sætum són!

14. Son Guds ertú med sanni, Sonur Guds, Jesú minn! Son Guds, syndugum manni, Sonar-arf skenktir þinn, Son Guds einn eingétinn; Syni Guds syngi gladur, sérhverr lifandi madur, heidur í hvert eitt sinn!

## 26. Sálmur.

### Samtal Krists og Pilatusar.

Lagid er: Hærsti Gud Herra mildi.

Hér þá um Guds Son heyrdi, heidinn Lands-dómare, hann spyr: (því hrædest gjørdi): hvadan vor Drottinn sé? en Jesús þýdur-þagdi, (þad og vel maklegt var); Pilatus brádt ad bragdi, bistist og aptur sagdi: vilt þú ei veita svar?

2. Mín er, þad máttú játa, maktin svo tignarlig, eg má vel lausann láta, líka krossfesta þig. Jesús svarar og segir: síst átt þú vald á mér, ef þér væri þad eigi, ad ofan gefid, svo megir, heidri þeim halda hér.

3. Sá hefir synd enn meiri, er seldi mig þér á hønd. Pilatus hygg eg þad heyre, hann grundar málin vønd. Gjørdi strax grida leita, gáfu Prestarnir ans: vægd ef þessum vilt veita, víst mátt þú ecki heita, kjær vinur Keisarans.

4. Heidíngjar halda gjørdu, hjá gudir þeirra senn, børn ættu alin á jørdu, eins og holdlegir menn; hann óttast hér

ef væri, Herrann Godanna kyns, hugdi
því helzt ad bæri, hyggilega framfæri,
ranſókn réttdæmiſins.

5. Skurdgod ſín heidnir hélldu, haf-
and'ſ meſtu akt, forgéfins hug ſinn hrelldu,
hræddir vid þeirra makt; o! hverſu
framar ætti, einn ſérhverr kriſtinn mann,
éttaſt Drottins almætti, med áſt og blygd-
unar hætti, ſem ſtoltum ſteypa kann.

6. Af ſtórri makt ſig réd ſtæra, ſtolt-
ur Pilatus hér, rétt mál til rángs ad
færa, reiknadi leyfilegt ſér; kann vera
margann megi, meiníng ſú villa þrátt,
þó lögin brjóti'og beygi, bannad ſé þeim
þad eigi, fyrſt vald þeir hafa hátt.

7. Gud er ſá voldin géfur, gæti þeſs
ædri ſtétt, ſitt léni hverr einn hefir,
hér af Drottni tilſett, hann lét þig
heidur hljóta, heidraſt því af þér vill,
vyrdíngar vel mátt njóta, en varaſt dramb-
ſemi ljóta; róg og rángindin ill.

8. Yfirvald einn Gud ſendi, undir-
menn gæti þar ad, ſverd Drottins heſir
í hendi, heidra ſkulum vér þad, hlýdug-
ir fridi halda, hlífd og forſvari ná, þver-
lynd-

lyndis þrjótskan kalda, þúnglegri hefnd-ar gjalda, ad vísu sér vænta má.

9. Eins sem hverr einn misbrýtur, eptir því straffast hann, hardari hefndir hlýtur, hinn sá meira tilvann; þeim mun ei plógan þverra, sem þrjótskast í synda-rót, sá þjón á von hins verra, sem vilja þeckir sins Herra, þó gjerir þvert á mót.

10. Vardveiti Valdsmenn alla, vor Gud! í sinni stétt, svo varist í vondsku' ad falla, vel stundi leg og rétt; hinir í hlýdni standi, hverr svó, sem skyldugt er, hrein trú og helgur vandi, haldist í voru landi, Amen, þess óskum vér!

## 27. Sálmur.

### Samtal Pílatusar og Gydínga.

Lagid er: Skaparinn stjarna Herra hreinn.

Pilatus heyrdi hótad var, honum Keisarans reidi þar, útleiddi Jesúm annad sinn, uppsetst þegar á dóm-stólinn.

2. Gydíngum sídan sagdi hér: sjáid, þar ydar Kóngur er. Þeir bádu:

tak þennann burt frá efs, brádlega lát hann deya'á kross.

3. Skal eg krossfesta Kóng ydvarn? kallar Pilatus hædnis gjarn; enganu Kóng segja. þeir aptur hèr, utan Keisarann hösum vèr.

4. Gudspjalls historian hermir frá, heiti sá stadur Gabbatha, háa steinstræti þýdir þad; þar máttú, sál mín! gæta ad.

5. Vei þeim Dómara'er veit og sier, víst hvad um málid rèttast 'er, vinnur þad þó fyrir vinskap manns, ad vikja' ef getu sannleikans.

6. Pílatus Keisarans hræddist heipt, ef honum yrdi'úr völdum steypt; þetta' sem helzt nú varast vann, vard þó ad koma yfir hann.

7. O! vei þeim, sem ad órètt lög, umgángast og þau tidka mjeg, sannlíkunum meta sitt gagn meir, sölvyrding Drottni gjöra þeir.

8. Huga sjá eg og máli mín, minn gódi Jesú! enn til þín; Pílatus Kóng þig kallar hèr, krossfesting Júdar óska þèr.

9. Víst ertú, Jesú! Kóngur klár, Kóngur dýrdar um eilíf ár, Kóngur Einglanna, Kóngur vor, Kóngur almættis tignar stór.

10. Þó stódstú bundinn þar fyrir dóm, þó leidstú hróp og qvala-róm, afsegja gjerdu allir þig, undrar stórlega þetta mig.

11. O Jesú! þad er játníng mín; jeg mun' um sídir njóta þín, þegar þú, dýrdar Drottinn minn! dómstól í skýum setur þinn.

12. Frelsadur kém eg þá fyrir þinn dóm, fagnadar-sælann heyr' eg róm, í þinn nafni útvalder, útvalinn kalla mig hjá sér.

13. Kóng minn, Jesú! eg kalla þig, kalla þú þræl þinn aptur mig, Virdíngu enga' ad heimsins sid, held eg þar megi jafnast vid.

14. Háa stein-strætid heimsins sleipt, hefir mér opt í vanda steypt, þángad lét Jesús leida sig, svo líknin hans kom' yfir mig.

15. Jesú! þín kristni kýs þig nú, Kóngur hennar einn heitir þú, stjórn

Þín henni svo haldi við, að himneskum nái dýrðar frið.

## 28. Sálmur.

### Um Pílatusar handþvott og dóm.

Lagið er: Nú bið eg, Guð! þú náðir mig.

Pílatus sá að sönnu þar, sín ráð máttu ei gylda par, upphlaup fyrir lýð hræddist hann, hugði að stilla vanda þann, fullnægja vildi fólksins bón, sá skyldi Jesús dauðans tjón, sannleika engum sinnti meir, svo dæmdi allt, sem beiddu þeir.

2. Hendur í vatni þá nam þvo, þar nærst við Júða mælti svo: sjálfir um yður sjái þér, saklaus við réttláta blóð eg er. Allur almúginn uppá það, andsvarar greitt í þessum stað: hans blóð (þó nú hann qvelji kross), komi yfir börnin vor og oss!

3. Pílatus haldi prófað þar, pínslarsök Drottins engin var, fyrir og eptir eins réð hann, úrskurða Jesúm saklausan, þó mót samvitsku sinni þvert, sjálf-

ur

ur viljandi dæmdi bert. Guð gefi' að Yfirvöldin vor varist þ-u dæmi glæpa stór!

4. Hvað margur nú í heiminum, hér fyrir lastar Pílatum, sem þó eiskar og iðkar mest, athæfi hans og dæmin verst? Oftinn í dómi opt fær sess, Yfir-Heirrarnir njóta þess; almúgans bræsun olli því, illgjarnir skálkar hlaupa frí.

5. Abata-von og vina-bót, verkin dylja, þó séu ljót, líka kémur sú fordyld fram, sem forsvarað gétur Barabbam. Géfst þá raunin hvað gyldá skal, gullrúngan sú, sem Achan stal; máské og þyggi mútur hinn, meir' enn Pílatus þetta sinn.

6. Eg spyr: hvað veldur óðygð flest, eykst nær daglega og fjöldgar mest? umbónarleysi' er orsök hærst, egin gagnsmunir þessu nærst, miskun, sem hennir skálka skjól, skygnist eptir um fánytt hól; Oftinn lögin svo þvíngar þrátt, þora þau ecki' að líta hátt.

7. Fyrir fólkinu þegar þar, þvoði Pílatus hendurnar, fyrir Guði sér þ-nn gjerði grun, gylda mundi sík afsekt-a. Varast þú, maður! heimsku hans, hér

þó þú villir sjónir manns, almáttug Drottins augsýn skjær, allt þitt hjarta rannsakað fær.

8. Viltú þig þvo, þá þvo þú hreint, þel hjartans bæði ljóst og leynt; ein laug er þar til edla góð, ydrunar-tár og Jesú blóð; gråt þína synd, en set þitt traust, á Sonar Guds pínu efalaust, lát af illu, en ydka gott, allann varasti hræsnis þvott.

9. Blóðs-hefnd á sig og børn sin med, blindadur lýdur hrópa réd, ebldist svo þessi ósk in køld, enn í dag bera þeir hennar gjeld. Athugagjarn og ordvar sért, einkum þegar þú reidur ert; for-mæling illann finnur stad, fást mega dæmin uppá þad.

10. Drottinn Jesú! sem dæmdur varst, Dómari kemur þú aptur snart, Dóms-menn láttú, til dyrdar þér, Dómana vanda rétt; sem ber; þvo þú vor hjørtu og hendur med, hrein trú vardveiti ró-semi géd; þ . . blód flekklaust, sem flódi á krossi, frelsi þad børnin vor og oss!

# 29. Sálmur:

## Um Barabbasar frelsi.

Lagid er: Eins og sitt barn.

Seldi Pilatus sáklausann, Son Guds til krossins dauda, uppháupsmadur sá vig eitt vann, þá frelsi fann, fèck líf, en misti nauda.

2. J myrkva-stofu sá bundinn beid, Barabbas trú' eg hann heiti. Má hèr finnast ein merking greid, um mannkyns neyd, mjøg skír ad øllu leiti

3. Barabbas frá eg Fødurs Nid, fleirstir lærdir menn þýdi; Adam líkist þar eflaust vid, og allt hans lid, sem á fèll daudans qvøldi.

4. Upphlaupsmadur hann ordinn var, þá eplid í munn sèr leiddi, sjálfs Guds bodordi sinnt' ei par, og sidan þar, sig og allt mannkyn deyddi.

5. J djøfuls fjøtrum fastur lá, fánginn til eilífs dauda, allir hans nidjar út í frá, med eymd og þrá, áttu vid qvala'og nauda.



6. Hér þá Jesú var hélið kallt, af heiðnu dæmt Yfirvaldi, fékk Adám aptur frelsið snjallt, og fólk hans allt, sem fagnar því lausnar gjaldi.

7. Nú fyrst eg Adams niðji er, nær mér gengur það dæmi; sál mín! set slíkt fyrir sjónir þér, og sjáðú hér, sanns ferðugt læðóms nœmi.

8. O! hvað opt hef eg aumur gert, uppreisn mót Drotins anda! daglega því hans boðorð bert, svo braut eg þvert, mér bar þó í hlýðni að standa.

9. Mun og ecki við manndráp frí, mína sál þrátt eg deyddi, ill dæmin gáfust af mér ný, og naudir í, náúnganu þar með leiddi.

10. Ofrægiur er eg ordinn mest, qllur skepnur það sanna, fáráðum eckert forsvar sjest, fángelsið verst, fyrir það hlýt eg kanna.

11. Í myrkvastofu og bundinn bíd, bölvan lögmáls mig hræðir, dapurt nálægist dauðans stríð, og dómsins eld, daglega sorgin mædir.

12. Heyri eg nú þann hjálpar-róm að hafir þú, Jesú mildi! fyrir mig lid-

id lïflâts dôm, þîn lïknin frôm, lausann mig kaupa vildi.

13. Sû heilaga'aflausn hrigd og sút, af hjarta mínu greidir, syndanna leysir blettja hnút, og hér nærst út, úr hördu sángelsi leidir.

14. Hvad dauda saknæmt sást á mér — svoddan eg miskun þecki — til dauda allt var dæmt á þér, minn Drottinn! her, dóminum qvídi'eg ecki.

15. Líf mitt og sál þig lofar nú, leyst frá daudans fángelsi, eg lifi eda dey, það er mín trú, óbrygdul sú, í þínu, Jesú! frelsi.

16. Himneskri Páska-hátíd á, hef'eg nú þess ad bida, myrkvastofunni frelsaur frá, eg fagna þá, í flocki' útvaldra lýda.

17. Svo er nú Barabbas ordinn frí, Adam og eg, hans nidji; hver kristin sála heimi í, vorn Herra því, hæ[illegible]ri, lofi, tilbidji!

# 30. Sálmur.

## Um Krists krossburd.

Lagid er: Uppá fjallid Jesús vendi.

Stridsmenn Krist úr kápu færdu, og klæddu' hann sínum búning í, sollnar undir sárt vid þiærdù, þær svidu' og blæddu uppá ný, á blessudu sínu baki særdu, hann bar sinn kross og mæddist því.

2. Skédi svo á samri stundu, Simon nockurn bar þar ad, framandi mann, er géck um grundu, gripu Júdar þañ í stad, krossinum á hans herdar hrundu, hann géck nauduga undir þad.

3. Þeir sem, sál mín! syndir drýgja, samvitskunni þvert á mót, undir Drottins endurnýa, ef ecki gjöra' á lestum bót; vid skulum frá þeim flecki flýa, og fyrirgéfningar bidj'af rót.

4. Uppá heimsins óþacklæti, er hér rami ljóst til sanns: margann lækndi Guds sæti, sjúkann medal almúgans, ... var ei neinn, sem bolid bæti og ... med honum krossinn hans.

5. Símon bædi og synir hans báda, sjálf hèr nefnir historían, gudhræddur skal njóta náda, og nidjar margir eptir hann, miskunsemda vid menn fáráda, minnast Gud og launa kann.

6. Framendi madur mætti Kristi, med honum bar hans þúnga kross. Hèr má finna, hvern þad lystir, hreina þýdíng uppá oss, Gydínga fólk þá Guds nád misti, gafst Heidíngjunum dýrdar hnoss.

7. Synda undir hfast mínar, opt á hverri stundu nær, samvitskunnar sá[illegible] ei dvínar, svida meinid illa grær, blés[illegible] adar, Jesú! benjar þínar, bid eg m[illegible] og lækni þær.

8. Þessi krossins þúnga byrdi, þ[illegible]e var, Drottinn! lögd á bak, svo syrirm[illegible]e an fylld sú yrdi, þá fórnar-vidinn bar Ísaak, sá þinn gánguriñn sorgar stirdi, af sálu minni tók ómak.

9. Minnist eg á þjánfug þína, þig sú mæddi byrdin strid, sannlega fy[illegible]r sálu mína, svoddan leid þín gædsk[illegible]a blíd, vegna þess mèr vyrdstu'ad sýna, vorkunsemi nær eg líd,

10. Hold er tregt, minn Herra mildi! í hørmúngunum ad fylgja þér, þó eg feginn feta vildi, fótspor þín, sem skyldugt er, vilji minn er í veiku gyldi, þú verdur því ad hjálpa mér.

11. Elsku-ged svo þitt eg þecki, þjádunni viltú sýna lid; láttú mig, Drottinn! einann ecki, í ánaud minni, þess eg bid; nafnid mitt, þó naudir þrecki, náð þín blessud kannist vid.

12. Komir þú undir krossinn stránga, kristin sála! gæt þess þér, ef holdid tekur ad mögla' og mánga, minnstú hver þín skyldan er, láttú, sem þú sjáir gánga, sjálfann Jesúm undan þér.

13. Undir krossi íllvyrkjanna, aldrei hér þig finna lát, váraztú glæpi vondra manna, á verkum þínum haf þú gát, vaka bæn og ydrun sanna, elska gjarnan hóf og mát'.

14. Haf þú, Jesú! mig í minni, mædu' og daudans þrelling stytt; barn þín hjá þér forsjón finni, frá þeim öllum vanda þritt, láttú standa á lífs-bók þinni, líka þeirra nafn, sem mitt!

## 31. Sálmur.

Predikan Krists fyrir Qvinnunum.

Lagid er: Sá frjáls við lögmál fæddur er.

Fólkid, sem Drotgni fylgdi út, fyllt' ist margt ángri hördu, qvinnur' ar grétu sárt med sút, sem hans qvöl aumka gjördu.

2. Snéri til þeirra Son Guds sér, sagdi þá Herrann mætur; grátid þér ecki yfir mér, o, Jerúsalems dætur!

3. Sonur ydar og egin eymd, ef- laust þér gráta megid, nálgast sú tíd, sem nú er geymd, nær þér hairm- andi segid:

4. Sæl nú óbyrjan barnlaus er, og brjóst þau ei sogin vóru, hrynji yfir oss hálsarner, hædir og fjöllin stóru!

5. Ef gjört er svó vid það grænu tré, (gæta hverr til þess nædi), hvad hid þornada þá mun ské? Það tiw'eg Jesús rædi,

6. O! hvad veraldar vyrdíng er, valt og svikul ad reyna, gæt þess, mín sál! og sjáðú hér, sannprófad dæmið eina:

7. Á Pálma-sunnudag sjálfur inn, Son Guds í borg nam rída, ástvinir hans þad sama sinn, súngu lof án alls qvída.

8. Fám dögum sídar sjálfur út, særdur med kross nam gánga, þad hlutu' hans vinir ad sjá med sút, sorg hjartans báru stránga.

9. Hafi svo veitid völt og slá, veröldin Herra sínum, hvörs má sér vænta þrællinn þá? Þess gæt í huga þínum.

10. Þeim, sem hún býdur blídleik sinn, búin er sorgin mesta; hyrdtú því aldrei' huga þinn, vid hana, mín sál! (?) ad festa.

11. Sannlega skyldugt segi' eg mér, sára þá qvöl ad gráta, sem Drottinn Jesú! þúngt ad þér, þreyngdi í allann máta.

12. Samt er þér ecki þént med því, þótt eg þig aumka vildi, eilífa þátign ertú í, upphafinn, Jesú mildi!

13. Þar má nú heldur aukast af, ángur samvitsku minnar, orsök eg til og efni gaf, allrar hörmúngar þinnar.

14. Erfidi hef eg aukid þer, afspúngt með syndum mínum, glæpafna, sem eg giørdi þer, galdstú á holdi þínu.

15. Hrædist eg mer se hulin geymd, sú hefndar pínan strånga, því eg vann til að eilif eymd, yfir mig skyldi gånga.

16. En þó gled eg mig aptur við, hvertinn qvala þinna, þar af ødlast eg frelsi, frið, og forlát synda minna.

17. Angistin sár og sorgar-lát, er sálhelzt þjáðu mína, snýst í fognuð og fegins-grát, fyrir þá miskun þína.

18. Bið eg nú, Jesú blíði! þig, sem bót mer gjørdir vinna: lát engan gjalda eptir mig, illsku né synda minna.

## 32. Sálmur.

### Um græna og visna trjeð.

Lagið er: Nú kom heidinna hjálpar ráð.

Greinir. Jesús um græna trjeð, getur hins visna einninn með. Við skulum, sál mín! skoda á ný, skírann lærdóm á máli því.

2. Frjófgunar eikin vøxtud væn, velblómgud stóð með laufin græn, þegar á



jørdu sást til sanns, Son Guds klæddur holdi manns.

3. Lífsins ávexti ljúfa bar, læknaði Jesús sóttirnar, frá djøfli leysti' og dauðans pín, daufum gaf heyrn enn blindum sýn.

4. Af hverri grein draup hunáng satt, hjálpræðis kénning' fékk hann rædt, øll hans umgengni ástúdleg, ángrádar sálir gláddi nýeg.

5. Guði var þeckt það græna tréd, glødduft himnar og jørdin med; í hans fæding það vitnast vann, og vid Jórdan þá skírdist hann.

6. Réttlætis allann ávøxt bar, inn til kross í dauða hlýdinn var, saklausa lambið Son Guds einn, af synd og lítum klár og hreinn.

7. Þó mátti ei það edla tré, ángurlaust verá á jørdunne, Guds reidistormur geysa vann, gékk því ressingin yfir hann.

8. Ef þú spyr ad: hvad valda vann, vildi Gud láta saklausann. Soninn komast í sorgir þær, sem honum var þó hjarta-kjær?

9. Þú skalt vita: ad visnad trè, var mannkyn allt á jördunne, ofan ad rótum, upp-þornad, ávöxt ránglætis færdi þad.

10. Skadsemdar-tried, sem skèmmdi jörd, skipadi Drottins reidi hörd, upphöggva, svo þad ecki þar, akrinum sè til spillingar.

11. Vor Jesús mennum vægdar bad, vinnast mátti ei ad fengist þad, utan hann tæki uppá sig, illverka gjöldin hriggilig

12. Herrann klæddist holdi þá, hlingad kom til vor jördu á, visnadri eik gafst vökvann gód, þá vard úthelit hans dýra blód.

13. Saklaus því leid hann sorg og hád, syndugt mannkyn svo fengi nád, hid græna trèd var hrakid og hrist, hèr af þad visna blómgadist.

14 Guds dýrdar-sæti sitt holt í, Sonurinn mátti ei hefja því, syrr enn í henni harda neyd, hafdi þolad og krossins deyd.

15. O! hvad manns hold er, heimsku fyllt, hriggilega úr máta villt, viljand'i

lostum liggur þad, leikur sér allskyns glæpum ad.

16. Margir ætla: fyrst ecki strax, ó-fellur hefndin sama dags, Drottinn þá aldrej muni meir, minnast á þad, sem gjerdu þeir.

17. Því góda trénu þirmt var síst, þurrum fauskt mun þá bálid víst; hafi Fadirinn hirt sinn Son, hefndar mun þrællinn ega von.

18. Ef nú Guds mildin ástúdlig, ó-hegnda, sál mín! lídur þig, hans þolin-mædi haldtú hér, hjálprædis medal gef-id þér.

19. Vísnad tré eg ad vísu er, vægdú, réttlætis Herrann! mér, gædskunnar eik-in græn og fín, geymdú mig undir skugga þín!

20. Von er ad mér sé mótkast víst, mun eg umflýa daudann síst, holdid má ei fyrir utan kross, eignast á himnum dýrdar-hnoss.

21. Tæpti eg mínum trúar staf, á treð, sem drýpur hunáng af, sjón hjart-ans öllu ángri f, upplýsist nær eg finne af því.

22. Þegar mér gánga þrautir nær, þér snú þú til mín, Jesú kjær! hjartad hressi og huga minn, himneskur nádar vekvi þinn!

## 33. Sálmur.

### Um Krists krossfestíngu.

Lagid er: Koníng David, sem kjenndi.

Kom loks med krossins byrdi Krist-ur i hausastad — erþjádur frá'eg hann yrdi— edik galli blandad, honum þeir héldu ad: Drottinn vor dýrdar mildi, drecka þó ecki vildi, þá hann smackadi þad.

2. Fals undir fegru máli, fordyldar hræsnin ber, vinátta temprud táli, og trúarlaus ydran hér, edik gall-blandad er, svoddan súrdreggja víni, (þó sjálft glis-legá skíni), Herrann hrindir frá sér.

3. Þad tek eg víst til þacka, þá þú vilt, Drottinn kjær! súrt med þér sjálfum smacka; sé þín miskun ei skjær, ꝼ hverri neyd mér nær! gall-beiskju bölvuninnar, og bikarinn heiptarinnar, burt tak þú frá mér fjær!

4. Nakinn Jesúm á jörðu, Júðar krossfestu þar, með heiptar sinni hörðu, hendur og fæturnar, teigt allt og togað var, gekk svo járn-gaddur nístur, gégnum ljósa og ristur, skinn og bein sundur skar.

5. Tveggja morðingja mikli, misskunar Herrann hékk, spádóminn frá eg svo fylli, sem fyrr meir um það gekk, ræðir svo Ritníng þekk: þjón minn sá einn útvalinn, er með spillvirkjum talinn, forsmán mjög þúnga fékk.

9. Nú eg minnist á næsta, nakinn þá Adam stóð, við tréð með hörmúng hærsta, hjarta-sorg, böl og móð, því verk hans vóru ei góð; innvortis ángrið qvaldi, undir tjánum sig faldi; þess galdt öll heimsins þjóð.

7. Nú optur Jesús nakinn, negldur á trénu stóð, píndur, húðstrýktur, hrakinn, hjartans bar sárann móð, þó vóru' öll verk hans góð; einn fyrir engum faldist, óbriberlega qvaldist, þess naut öll heimsins þjóð.

8. Horfi' eg á hendur blnar, Herra minn Jesú kær! fyrir misgjörðir mín-

ar, meinin slík lidu þær, blód-dreyrinn dundi skjær, sáurgun sálar og handa, sem mér komu í vanda, af hreint med öllu þvær.

9. Fús var eg fram ad halda, feril glæpanna hér, þess fætur þínir gjalda, þad vard til líknar mér; Drottinn! eg þacka þér, fram á fridarins leidir, fótspor mín jafnan greidir, hedan af hvar eg fer.

10. Gud gjæfi! mitt hold mætti, med þér krossfestast nu, frá öllum illsku hætti, ósk mín er dagleg sú, minn Herra! þad veitst þú, uppá þad önd mín kynni, óhindrud gatsku þinni, þjóna med þýdri trú.

11. Einn med útrædis mönnum, allir þig héldu þá, sem í heilagleik sönnum, sjálfur komst himnum frá, nú eg þess njóta má, af því eg er útvalinn, med ödrum Guds börnum talinn, þar treysti eg efianst á.

12. Eg mun æ medan hjarta, minnast á krossinn þinn, heimsins ljúfi Lausnari! lífgar þad huga minn, hvert eg geng út eda inn, af innstum ástargrunni,

ætíð með hjarta og munni, segjandi hvert eitt sinn:

13. Jesú Kristi qvøl eina, á krossinum fyrir oss sken, sé mín fattargjørð hreina, og synda-qvittunen, af sjálfum Guði sjen, uppá það ønd mín vonar, í nafni Feðurs og Sonar, og heilags Anda, Amen!

## 34. Sálmur.

Fyrsta Orð Krists á krossinum.

Lagið er: Lifandi Guð! þú lít þar á.

Þegar qvalarar krossinn á, keyra vorn Herra gjørðu, flatur með trjenu lagður lá, Lausnarinn niður á jørðu, andlitið horfði í þeim stað, og augun hans blessuð himnum að, hann stundi' af ángri hørðu.

2. Sinn faðir allt eins og barnið blídt, kvelddi mót føðurnum kjæra, blóðið tunti og tárin tídt, titraði holdið skjæra. Hér skoða, maður! huga þinn, hvað kunni meira nockurt sinn, Drottinn til hefndar hræra.

3. Ovinum friðar biðdur bað, bæ[illegible] yr miskunarinnar, hann vili þeir [illegible]

einninn ad, ávaxtar yðuu sinnar, sagði:
Faðir! þeim fyrirgéf þú, forblind-
aðir ei vita nú, sjálfir hvað vondt
þeir vinna.

4. Lausnara þínum lærðú af, lund-
erni þitt að stilla, hógværðar dæmi gott
hann gaf, nær gjöra menn þér til illa,
blót og formæling varast vel, á vald
Guðs allar befúdir sel, heipt lát ei hug
þinn villa.

5. Þótt þú við aðra saklaus sért,
sannlega skalt þess gæta, samt fyrir
Guði sekur ert, sá á þig friálst að
græta; illir menn eru' í hendi hans,
hirtingar vendur syndugs manns, eng-
inn kann þess að þræta.

6. Óvinum ills þó óskir þér, ei mink-
ar heiptin þeirra, óþolinmæði eykur þér,
afrækir boð þíns Herra, þú styggir Guð
með svoddann sið, samvitskan mjög þér
stirlast við, tjón þitt verður þvi verra.

7. Upplýstú hug og hjarta mitt, Herra
minn Jesú sæti! svo að eg dygða-dæm-
ið þitt, daglega stundað gæti; þeir, sem
mig forþént, ángra mig, óska eg helzt að
betri sig, svo hjá þér miskun mæti.

8. Heimsins og Djöfuls hreckja-vjel, holtið þrálega villa, þess vegna ecki þecki'eg vel, þó nú margt gjeri'eg illa; beri svo til eg blindist hér, bið þú þá, Jesú! fyrir mér, það mun hefnd harða stilla.

9. Eg má vel reikna annann mig, einn í flock þeirra manna, sem í qvölinni þjáðu þig, það vöru gjöld syndanna; en þú, sem bættir brot min hér, bið þú þá líka fyrir mér, svo fái'eg freisun sanna.

10. Fyrst þú baðst fridar fyrir þá, er forsmán þér gjörðu mesta, vissulega eg vita má, viltu mér alltið besta; því eg er Guðs barn og bróðir þinn, blessaði Jesú Herra minn! náð kann mig nú ei bresta.

11. Allra síðast þá á eg hér, andlát minn að gegna, sé þá, minn Guð! fyrir sjónum þér, Sonar þíns píngn megna, þegar hann lagður lágt á trje, leit til þín augum grátande, vægðu mér þá hans vegna.

# 35. Sálmur.

Um yfirskriftina á krossinum.

Lagid er: Náttúran oll og edli manns.

Uppskrift Pilatus eina lét, yfir krossinum standa: Jesús nefndur af Nazareth; innr Kóngur Gydinga landa. (Drottni med sann, Dómarinn fann, dauda sök enga stærri). Margur las þad, í þessum stad, því hann var borg svo nærri.

2. Þad var ritad og þannig sett, í þrennslags túngumáli, Valdsmenn Júda þad vissu rétt, vilja því Pilatus brjáli: hann ansar greidt, ei skyldi neitt, umbreytt, og framar tjádi: hvad skrifad er, skal standa hér. Svo skédi af Drottins rádi.

3. Þar nú á krossi Herrann hékk, hér ad, mín sála! gættu, yrdingar titil fagrann fékk, med forpris fagnandi mætum, ad hjálpar-fús, heitir Jesús, heimsins Lausnarinn gódi, hver oss frí, oss frelsa má, flecklaus med sinu blódi.

4. Nazarenus hann nefnist þar, náttúru spilling manna, fráskilinn einn ad

vísu var, velþecka blýdni sauna, shndt hann hreint, ljóst bædi'og leynt, lifanda Gudi einum, hans tignar Son, trúr, forsjáll þjón, tryggur í ollum greinum.

5. Köngur Gydinga klár og hreinn, í krapti gudlegum drottnar, sá Davíds stól skal erfa einn, aldrei hans ríki þrotnar, Israels hrós, heidinna ljós, heitinn forfedrum lengi, svoddan titel, sómdi rétt vel, sál mín! þinn Herra fengi.

6. Svoddan vyrdíngu vildu hann, vondir Gydíngar sneyda, heiptar efundin í þeim brann, af því Platum beida: ordtak þad brádt, á annann hátt, úr-færa settum móta; hann qvad vid nei, því þad vill ei, þeim Drottinn veitast láta.

7. Dramblátum setur Drottinn skamt, med djørfúng sína'og hrecki, þeim lídst svo sem hann leyfir framt, lengra komast þeir ecki; allt skal mitt traust, - ef-unarlaust, á hans makt jafnan standa, hvad munu mér, þá menniſkner, mega í nock u granda?

8. Í þrennslags túngum var þetta skráð, þvíad vor Herrann mildi, vildi

sin elska, dst og náð, allri þjóð birtast skyldi, hvert túngumál, með hug' og sál, heiðri þig, Jesú góði! sem qvölin þín, og krossins pín, keypti frá synda móði.

9. Gefðu að móðurmálið mitt, minn Drottinn! þess eg beiði, frá allri villu klárt og qvitt, krossins orð þitt útbreiði, um landið hér, til heiðurs þér, helzt mun það blessun valda, meðan þín náð, lætur vort láð, lýði og bygðum halda.

10. Handskrift var ein yfir höfði mér, hún mína sálu grætti, önnur stóð, Jesú! yfir þér, sem ángur vors hjarta bætti; Jesú! þú ert, útvalinn bert, undir Kóngs-stjórnun þinni, árla og síð, um alla tíð, óhætt er sálu minni.

## 36. Sálmur.

### Um skiptin á Krists klæðum.

Lagið er: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Stríðsmenn þá höfðu krossfest Krist, klæðnað hans tóku snart, skiptu í staði fjóra fyrst, sá skyldi hverr. sinn part, á kyrtil prjónaðan

ljóſt með liſt, løgðu þeir hlutfall
djarſt, ſólſku verk meðan fullgjørdiſt,
ſólkið á horfði margt.

2. Ritníng ſú eina uppfylld er, áð-
ur var þar um ſkráð: ſkrúða mínum
þeir ſkiptu ſér, ſkírlega það er tjáð;
hlutfallið yfir fat mitt ker, ſæ eg þeſs
einninn gáð. Set maður ſlikt fyrir
ſjónir þér, ſjá Drottins miklu náð.

3. Nú máttu ſkilja nakinn var, negld-
ur Drottinn á kroſs, opinbert ſáu allir
þar, útrunninn dreyra-foſs; ſvoddan
forſmán Guðs Sonur bar, ſannlega
fyrir oſs, hér gêfſt øllum án þylmíngar,
himneſkt miſkunar hnoſs.

4. Kalla eg merki klæðin hans, kriſtn-
ing'ſ heimi hér, um fjórar áttir foldar-
ranns, ſlockur ſá dreifði ſér; lifkyrtill
þeſsi Lauſnarans, likuar orð bleſſað er,
vilji, því ſkipta ſkynſemd manns, ſkiln-
ing ſannleikſins þver.

5. Ei lét vor Drottinn audlegd há,
eptir í-þeſſum heim, klæðin, ſem hann
bar holdi á, enn hverki gull né ſeim,
þó mátti ei hans Móðir fá, hið minnſta

af öllum þeim, íllir menn hendi' yfir
þau slá; aldrei því dæmi gleym!

6. Safna hóflega heimsins aud, hug-
sykin sturlar ged, þygg af Drottni þitt
daglegt braud, duga lát þér þar med;
heldid þá jerdin hylur raud, hlotnast
má ymsum féd, svo þig ei ginni girnd-
in snaud, gæt vel hvad hér er skéd.

7. Stríðsmanna heipt og hardhýdge,
Herrans qvöl gat ei mýkt, þó viti nóg
hann særdur sé, sinnid var. illskn rikt.
Þeir, sem fátækann firra fé, fölskn-verk
drýgia slíkt; Gud láti þig ei glæp þann
ské, þú gjörir annad þvílíkt!

8. Nakinn á krossi héckstú hér, Herra
minn Gud og mann! fullnadar borgun
fengin er, fyrir mig syndugann, þá fórn
Drottinn og sál mín sjér, sú gledst ein
blídkast hann, brúdkaups klædnad til-
bjóstú mér, þann besta' eg girnast kann.

9. Henluglega fell hlutur sá, Herra
minn Jesú kjær! þú létst mig . . . .
finna' og fá, fagnadar ord þín . . . .
þeim klædafaldi þreyfa' eg á, þegar . . .
brigdin . . . , straumar eymdanna . . .
. . st þá, hyrk . hann hjartad sær.

10. Hér þó nú skipti heimurinn, hlæ- andi auki sín, endast sá glaumur eitt- hvert sinn, þá æfin lífsins dvín; mér látin hlotnast, Herra minn! hlutfall næst krossi þín, svo dýrdar fegursti dreyri þinn, drjúpi á sálu mín!.

## 37. Sálmur.

### Annad Ord Krists á krossinum.

Lagid er: Hverr, sem ad reisir hæga bygd.

Uppreistum krossi Herrans hjá, hans Módir standa nádi, sverdid, sem fyrr réd Simeon spá, sál og líf hennar hjádi, Jóhannes einnig Jesú kjær, jafnt var þar-líka staddur nær, gleggt sá ad öllu gádi.

2. Sinni Módur hann segja réd: Son þinn lít þú þar qvinna; vid lærisveininn líka med, Lausnarinn blódt nam inna: sjá þú og Módur þína þar, þadan í fra (sem skyldugt var), sér tók hana til sinna.

3. Sá sem hlýdninnar setti bod, sínu: b[illegible]n réd heita, þeim ed foreldrum styrk og hod, stunda med elsku ad veita; svo[illegible]

an dygdauna dæmid hér, Drottinn vor sjálfur gaf af sér, börnunum eptir ad breyta.

4. Girnist þú, barn mitt! blessun fá, björg lífs og gæfu fína, foreldrum skaltu þínum þá, þócknun og hlýdni sýna; úngdóms þverlyndid optast nær, bluckú og slis ad launum fær, hreckvísa hefndir pína.

5. Eckjurnar finna einnig hér, ágætis huggun blída; Jesús allt þeirra ángur sjer, umsjón þeim veitir fríða, ef þær med hreinum hug' og síd, halda sig Drottins pínu vid, og hans hjálpræd sis blída.

6. María Drottins Módir kjær, merkir Guds kristni sanna, undir krossinum optastnær, ángur og sorg má kanna, til hennar talar þó Herrann hýrt, huggunar ordid sendir dýrt, og forsjón frómra manna.

7. Þad reyníst opt í heimi hér, hlutfall Drottins ástvina, hörmúnga sverdid sárt þá sker, sæld lífsins gledur hina, hverjir þó Kristum hata mest, hesir þad

 laung-

lyungum útgengest, litt vill því ángri lina.

8. Enn þeir, sem Jesúm elska'ek rót undir hans krossi standa, Herrans blóð-fadmi horfa' á mót, hvern þeir líta í anda, trúar og vonar sjónin sett, sár hans og. benjar skoda rétt, það mýkir mein og vanda.

9. Jesús einnig með ást og náð, aptur til þeirra lítur, gêfur hugsvølun hjálp og ráð, harmabønd af þeim slítur, adgætin fødurs augun klár, ell reiknar sinna barna tár, adsted þau aldrei þrýtur.

10. Jeg lít beint á þig, Jesú minn! jafnan þá hrigdin særir; í mínum krossi krossinn þinn, kroptuglega mig nærir; sérhvert einasta sárid þitt, sannlega grædir hjartad mitt, og nýjann fegnud færir.

11. Þá eg andvarpa, óska' og bid, augunum trúar minnar, lít eg hvert einast' ordid vid, upp til krosspínu þinnar, strax sýna mér þín signud sár, syndugum manni opinn stár, brunnur blessunarinnar!

12. Gledi-

12. Gledistund holds þá gèfur mèr, Gud minn, ad vilja sínum, uppá þig, Jesú! horsi' eg hèr, hjartans augunum mínum, audlegdar gædin líkamlig, láttú þó aldrej villa mig, frá krossins fadmi þínum.

13. Jónas sat undir einum lund, engra meina því kénndi, hádegis sólar hita-stund, hann ei til skada brenndi; Jesú kross skugga skjólid hèr, skýlir þó lángtum betur mèr, fyrir Guds hefnd-ar hendi.

14. Hvert eg sef, vaki, sit edur stá, í sælu'og hættum nauda, krossi þínum eg held mig hjá, horfandi'á blód þitt rauda; lát mig einninn þá æfin þver, útaf sofna á fótum þèr, svo qvíd'eg síst vid dauda.

## 38. Sálmur.

### Um brixlyrdin, sem Kristur leid á krossinum.

Lagid er: Jesús, sem ad oss frelsadi.

Þeir, sem ad Kristi krossi sen, komu og fram hjá gengu, brixtu med

hádáng høfuden, hvorum til brix lis fengu; heit ord sin hefdi hann haldið lett, Herrans musteri ad brjóta, á þremur døgum annad nýtt, efna med byggíng fljóta

2. Tveir lugu svoddan falsmenn fyrst, fyrir Kaiphas's dómi, of þet hefdi þad útborist, eptir fjølmennis rómi; þessir þó hafi heyrt og sjed, Herrans jardteiknir fridar, lýgin þeim beint gafst um géd, gengur svo enn til vidar.

3. Auldúngar landsins, fólkid flest, og flockur heidinn stridsmanña, Herrann vorn Jesúm hæddu mest, med Høfdingjum Prestanna; søgdu: ef ert þú Son Guds kjær, sá þig med krapti stydur, kom þá hér, svo þad sjáum vær, sjálfur af krossi nidur;

4. Hann, sá ed ødrum hefir hér, hjálpad og læknad marga, megnar nú ecki'ad sønnu sér, sjálfum úr neyd ad bjarga. Svoddan hádyrdi, hróp og dár, hlaut þá Jesús ad lída, stód þad yfir um stundir þrjár, stutt var endláts ad bída.

5. Þá

5. Þá fram hjá Kristi krossi úr, kallandi held eg gánga, sem ekki af hjartans ást og trú, elska hans pínu stránga, heilagleik' sínum hrósa frí, við holdsins fýsn sig binda, síðan falla ekki afturmoti' í, eða forherðíng' synda.

6. Að þínum krossi, Kristi kjær! kém eg, sem einn framandi, gef þú mér leyfi að gánga nær; gef mér styrki þinn Andi! svo að hugleiði: hvað til kom, háðúng, brigsiorð og pínu, leiðstu, mannagæðsku mildin fróm! móti andláti þínu.

7. Sál mín og líf þær sæmdir hlaut, sjálfs Guðs musteri að heita, í skírninni því eg þín að naut, það nam' Guðs andi veita, síðan hefir það syndin mörg, sárlega gjört að brjóta, holds náttúran því elskar org, athæfið heimsins ljóta.

8. Á þremur dögum þar á mót, því bét eg mörgu sinni, með iðrun, trú og yfirbót, aptur það bætast kynni, æ! hvað veitir slíkt ervidt hér, efnin og dug vill þverra, brýslið sein til var búið mér, bar því Jesús minn Herra.

9. Í velgengninni' eg hrósa hátt, hraustleika trúarinnar, í mótlætinu' hún

bilar brádt, breſt finn eg ſtórann henn-
ar, enginn fullkominn á mér ſjeſt, ávext-
ur dygda ſætur, bar því fyrir mig brixl-
id verſt, bleſſadur Jeſús mætur.

10. Hjálpa lætſt eg med heilnæm ráð, hinum, ſem illa breyta, ſjálfs míns lýta þó ſiſt ſæ gád, ſvoddan má blindni heita; mér var þar ſtærſta minkun ad, mátti hádyrdum qvlda, burttók nú Jeſús bolid þad, brixlin því vildi' [illegible]nn líða.

11. Jeſú! í þ'nu andláte, yfir þig brixlin dundu, ad ſvo í fridi énd min ſé, á minni dauda-ſtundu; hádúng leidſt þú af ollum einn, alla frá hádúng leyſt-i, aldrei tapaſt ſá nockurr neinn, er nafn þitt uppá treyſtir.

12. Nær ſem hreckolſra hádúng nýr, hiartad mitt ſárt vill ſtánga, undir þinn kroſs eg feginn flý, fram hjá ſkal eigi gánga, þar ſtend eg kyrr, þó kals og ſpé, qveiki mér heims óblida, uppá þig Jeſú! einn eg ſje, allt vil eg med þér ſlída.

13. Fyrſt þú varſt hædnar, Herra! þá, harma qvol leidſtú ſlíka, ſvo heidri þig nú hédan í frá, himnar og jördin

ekka! allir Englar og öll heims-wind, undir þitt vald sig hnegi, og eg þar uppá aum mannkind, Amen af hjarta segi.

## 39. Sálmur.

### Um Ræningjans yðrun.

Lagid er: Einn Herra eg best ætti.

Annar ræninginn rædди, sem ‹efs› ad þad sinn var, Herrann vorn Jesúm hæddi, hann gaf þetta andsvar: ef þ‹u› ert von er til nockur, ad þú Guds Sonur sert, hjálpa þer og svo ockur, úr þessum naudum bert.

2. En hinn þar uppá gegndi: ecki hrædist þú Gud! hverjum ‹st›raffs heiptin hegndi, hún var rett forþént ud! vid megum vel medtaka, verka betaling þann, en þessi er allo ‹s›án saka, eptir þad sagdi hann:

3. Hugsa þú til mín Herra, þá heldur þú riki þitt! ást Drottins ei nam þverra, andsvar lét heyra ‹sitt›: sannlega eg þer segi, (sú er huggunin

 vis,

vls), þú skalt á þessum degi, mér þjóna í Paradís.

4. Sjá hér fyrst straffið synda, sála mín! hriggilegt, forherding hjartans blinda, þó holdið qvelji frekt. Gefdu mér, Jesú góði! eg gegni vel hirting þín, með trú og tára-flóði, og tjái þér brotin mín.

5. Ræningjans ydrun eina, athugum líka með, hann gjørdi játning hreina, hatadi illverk skéd, því sagdi' hann vært að vonum, verdlaunin ránglætes, hvílsun veitti honum, sem vildi'ei gæta þess.

6. Hann trúði': á himnaríki, hefði vor Jesús ráð, þó syndugra syndist líki, svo treysti á hans náð, med blygdun og hreldum huga, Herrann sin minnast bað, ljúflega lét sér duga, loford ef fengi það.

7. Hróp og háreysti gjørdu, heidnir og Júdar þar, kríngum krossinn á jørdu, með kals, brixl og háðúngar; svarad' ei Son Guds neinu, þó sjálfann það snerti hann, en syndugs mans ordi einu, án dvalar gegna vann,

8. Sætt mér fyrir sjónum skartar, sæll Jesú! gæðskan þín, þér gêck heidur til hjarta, hans neyd en sjálfs þín; sama hefir þú sinni, vid syndugar skêpnur hér, þvi aldrei elsku þinni, aptur, minn Herra! fer.

9. Illvirkinn hafdi unnid, ódádaverkin stærst, gatu glæpanna runnid, greitt fram í dgudaun nærst; en Jesús ecki vildi, á þad neitt minnast nú, svo var mikil hans mildi; minn sál! þad hugleid þú.

10. Enginn örvænta skyldi, þó ýdrast hafi seint, sem er Guds Sonar mildi, sé annars hjartad hreint, þvi hvörki vid stadi né stundir, skýlud er Drottins nád, allt fram andlátid undir, ofs bydst hans hjálpar-rád.

11. En þú skalt ecki treysta, ó vissri dauda-stund, né Guds med glæpum freista, gjörandi þér í lund: nádar-tíminn sé nærsta, nógur hondum fyrer; slíkt er hættusemd hærsta; henni Gud fordi mér!

12. Svo margt eg syndgad hefi, sorgin mig skurlar nú, ydrun Guds nád

mér gefi, glóandi von og trú. Herra Jesú hjartkjæri! hugsa þú til mín þá dapur er dauðinn nærri, og drag mig qvölum frá!

## 40. Sálmur.

### Þriðja Orð Kristís á krossinum.

Lagið er: Skaparinn stjarna Herra hreinn.

Uppá Kóngsins orð og bón, ansaði Guðs hinn kjæri Son: þú skalt, sannlega segi eg þér, sælu-víst hafa'í dag með mér.

2. Sjá þú með gætni, sál mín kjær! sönn ydran hverju kraptað fær, uppá það dæmið er hér rétt, öllum til lærdóms fyrisett.

3. Reiði Drottins þá uppegnd er, yfir ránglæti mannsins hér, ydranin blíðkar aptur Guð, ei verður syndin tilreiknuð.

4. Þó komi hæstug hefndin bráð, hrein ydran jafnan finnur náð, miðt í standandi stríði því, stillist Guðs reiði uppá ný.

5. Sann-

5. Samvitsku orma sárin verst, sem ydran jafnan grædir best, hugsvalar sál og huggar gèd; heilaga Engla glcdur med.

6. Bæn af ydrandi hjarta hýr, hún er fyrir Gudi metin dýr, Herrann Jesús á hverri tíd, henni gaf jafnan andsvör blíd.

7. Sem Möises med sínum staf, sætt vatn dró fordum steini af, eins fær ydrandi andvarp heitt, út af Guds hjarta miskun leidt.

8. Játníng mín er sú, Jesú minn! jeg er, sem þessi Rænínginn, já! engu betri í augsýn þín, ef þú vilt reikna brotin mín.

9. Kèm eg nú þínum krossi ad, kanns ast þú, Jesú minn! vid þad; syndanna þúngi þjakar mèr, þreýttur eg nú ad mestu er.

10. Alnakinn þig á einu trè, út þín= ar hendur breidandi, sárin og blódit sígnad þitt, sjer nú og skodar hjartad mitt.

11. Þar vid hugga mín sála sig, svoddan allt leidst þú fyrir mig, þus

hjarta=dreyra heilög lind, hreinsar mig vel af allri synd.

12. Krossins burtnuminn qvölum frá, Kóngur ríkir þú himnum á, Herra! þegar mig hrellir pín, hugsaðu' í þinni dýrð til mín.

13. Seig þú hvern morgun svo við mig, sæti Jesú! þess beidi'eg þig: í dag þitt hold í heimi er, hjartað skal vera þó hjá mér.

14. Í dag — hvern morgun eg svo bið — aldrei lát mig þig skiljast við, hugur, sinni og hjartað mitt, hugsi og stundi'á ríkið þitt.

15. Eins þá kémur mín andláts=tíð, orðin lát mig þau heyra blíð: í dag — segðú — skal sálin þín, sannlega koma' í dýrð til mín.

16. Herra minn! þú varst hulinn Guð, þá hæðni leidst og krossins nauð, þó hafðir þú með hæstri dáð, á himnaríki vald og ráð.

17. Dauðanum mót mér djörfúng nýð, daglega vex af orði því: í dag, þá stóur ei lángt um það, leidd verður gud í sælu = stað,

18. O Jesú! síu ordin þín, andláts síðarsta huggun mín, sál minni verdi sælan vís, med sjálsum þér í Paradís!

## 41. Sálmur.

### Fjórda Ord Krists á krossinum.

Lagid er: Af djúpri hrigd ákalla' eg þig.

Um land gjørvallt vard yfrid myrkt, allt nær frá sjøttu stundu, sólin því ljóma sinn fékk byrgt, senn til hinnar níundu; Gud minn! (Jesús svo hrópar hátt), hvar fyrir gleymdir þú mér brádt? svoddan mín sál! vel mundu.

2. Enginn skal hugs' ad Herrann þá, hasi med efa' og brædi, hrópad hanninn og horsid frá, heilagri þolinmædi, syndanna krapt og qvalanna stærd, kynnir hann oss, svo verdi hrærd, hjørtum sín hreckja ædi.

3. Sólin blygdast ad skína skjær, þá Skapara sinn sá lída, hún h-sd'ei skuld, (þad vitum vær), þess voda meinsins strída ⸗ o! hvad skyldi þá skammast sín,

 skýn⸗

skêpnan, sem Drottni jók þá pín, með
brigð og hjartans qvöða.

4. Avi! hvað má eg aumur þræll,
ángraður niður drjúpa, þá eg heyri,
minn Herra sæll! sá harma bylgjan
djúpa, gêck yfir þig, þá galdstú mín;
gjarnan vil eg að fótum þín, feginn
fram flatur krjúpa.

5. Í vistu myrkrum um eilífð er,
óp og gnýstran tannanna, hefndar-straff
það var mákleg mér, fyrir margfjöld-
ann glæpanna; frá því, Jesú! þú frelst-
ir mig, frekt gêngu myrkrin yfir þig,
svo skyld' eg þá qvöl ei kanna.

6. Í svörtu myrkri það sama sinn,
sorgar-raust létstú hljóma, þá hrópaðir
þú mig, Herra! inn, í himneskann
dýrðar-ljóma; í því ljósi um eilíf ár,
útbrópa skal mín raustin klár, lof þinna
leyndardóma.

7. Synda, sorga og mótgángs með,
myrkrin svo opt mig pína, að gleggt
fær ecki sálin sjeð, sálu-geislana þína;
Jesú! réttlætis sólin sæt, syrgjandi eg
það fyrir þér græt, harma-raust heyr
þú mína.

8. Guð minn! segi eg gjarnan hér, geyst þó mig sorgin mæði, Jesú! eg læri nú það af þér, það skulu mín úr-ræði, gjörvöll þá heimsins gleðin dvín, Guð minn! eg hrópa vil til þín: Guð minn allt böl mitt græðir!

9. Yfirgésinn qvað Son Guðs sig, þá særði' hann qvölin megna; yfirgéfur þú aldrei mig, eilífur Guð hans vegna, fyrir þá Herrans hrigðar-raust; hérstur Drottinn mun efalaust, grátbeiðni' minni gégna.

10. Þá sólar-birtunni' eg sviptur er, sjón og heyrn tekur að dvína, raust og málfæri minkar mér, myrkur dauðans sig sýna, í minni' þér, Drottinn sæll! þá sé, sonar þíns hróp á krossins tré, leið sál til lífsins mína!

## 42. Sálmur.

### Fimta Orð Krists á krossinum.

Lagið er: Eins og sitt barn.

Í sárri neyð, sem Jesús leið, sagði hann glöggt: mig þyrstir.

Svo R'tn'ng hrein, í hverri grein. uppfylltist ein; um þad mig ræda lystir.

2. Strax hljóp einn ad, þá heyrdi þad, hitta njardarvött kunni, lét á reyr-prik, drap í edik, med illt tilvik, og bar Jesú ad munni.

3. Forundrast má, mín sál! þar á, madurinn hverr þess gætir, ad hann sem rád, hefir med dád, á himni og lád, hörmúng þvílíkri mætir.

4. Hann, sá sem vín, af valdi sín, ár vatni sætt tilreiddi, med sorgar-skick, sëck súrt edik, fyrir svala-dryck, þá sárt hann þorstinn neyddi.

5. Því mund' ei hër, til hlífdar sër, Herrann edikid lika, sem vín ágætt, gjöra vel sætt, fyrst gat þad bætt, hans Gudsdóms maktin ríka?

6 Komin vat tíd, krapta-verk fríd, Kristur ei gjöra skyldi, hin stundin þá, fyrir hendi lá, hrigd, qvöl og þrá, Herrann vor lída vildi.

7. Krapta-verk hrein, kennir þó grein, ad Kristur Guds Sonur væri, en qvölin hans, syndi til sanns, ad syndugs manns, sektir og gjöld hann bæri.

8. Guds einka Son, gjørdist vor þjón, þá græddi' hann mein og qvölda, offurlamb best, hann ordinn skíst, fyrir utan brest, í því hann qvøl nam lída.

9. Af stríði því, sem stód hann í, styrkleiki manns náttúru, þreytast mjøg vann, því þyrsti hann, þádi vokvann, þó af ediki súru.

10. Í annann stad, merk, madur! það, og minnst þess hverju sinni: ad Herrann Krist, hefir mest þyrst, af ást og lyst, eptir sáluhjálp þinni.

11. O madur! nú, þenk þar um þú, þinn hugur blygdast skyldi; Gud þyrsti hér, ad hjálpa þér, en hjartad þitt er, óþyrst eptir hans mildi.

12. Heyr þú, sál mín! talar til þín, trygda brúdguminn gódi; þyrstur eg er, í brigdum hér, svo hjálpi eg þér, úr hættu qvalanna flódi.

13. Ber honum síst, þess blód eg vísst, beiskann dryck hræsnis anda, ordin hans hrein, á alla grein, fyrir utan mein, óbrjálud láttú standa.

14. Uppá ord þín, svarar sál mín, sorgin þó málid heptir: þyrst er eg nú,

og þad veitst þú, þýdi Jesú! þinni miskunsemd eptir.

15. Ecki'er hjá mér þad þyrstum þér, þori'eg nú fram ad bjóda, nema sá tár, trú veik, þó klár, sem til þín stár, tak þad og virð til góda.

16. Lof, dýrd sé þér, lausn fékkst þú mér, og létst þig svo miklu kosta, hjartad á ný, huggast af því, ad eg er frí, frá villsum qvala þorsta.

## 43. Sálmur.

Sjötta Ord Krists á krossinum.

Lagid er: Allfagurt ljós oss birtist brádt.

Eptir ad þetta allt var sked, edikid Jesús smacka réd, þrótt og lífskraptr þverra sann, þad er fullkomnad! sagdi hann.

2. Ord þíns Herra med ást og trú, athuga skaldir, sál min! þú, ef þeirra grundvöll sannann sjer, sæta huggun þau géja þér:

3. Fyrst skaltú vit' ad Gud útgaf, greinilegt legmál himnum af, hann vill ad

að skuli heimi i, hverr matur lifa eptir því.

4. Algjert réttlæti ljóst og leynt, líkama, sál og gétið hreint, syndalaus orð og atvik með, af oss lögmálið heimta réð.

5. Hugurinn vor og hjartað sé, í hreinni elsku rétt brennande, fyrir utann hræsni bræði'og bann, bæði við Guð og náungann.

6. Hverr þetta gæti haldið rétt, honum var lífið fyrirsett, en ef í einu út af brá, eilíf fordæming við því lá.

7. Enginn maður frá Adam fyrst, eptir þann dag hann syndgaðist, fullnægju gat því gjört til sanns, gengur það lángt yfir eðli manns.

8. Óbærileg var allra sekt, eptir því Drottinn gékk svo frekt, annaðhvert skyldi uppfyllt það, eða mannkynið fortapað.

9. Jesús eymd vora alla sá, ofan kom til vor jörðu á, hæðum hinna uppruninn af, undir lögmálið sig hann gaf.

10. Yfirsjónglega í vorn stað gékk, var svo framqvæmdin Guði þekk, feðurnum



hlýdni fyrir oss galdt, fullkomnadi sro legmál allt.

11. En svo ad synda sekrin skéd, sannlega yrdi forlíkt med, og bølvan legmáls burtu mád, beiska qvøl leid og daudans hád.

12. Þá hann nú hafdi allt uppfyllt, sem oss var sjálfum ad gjøra skyldt, og bæta øll vor brotin frí, berlega vildi hann lýsa því.

13. Þess vegna Herrann hrópa nam, hartnær á krossi stiginn fram, ad oss í voru andláte, øll hans verdskuldan hugg-an sé.

14. Svoddan adgæt þú, sála mín! Sonur Guds hrópar nú til þín, hvad þér til frelsis þéna kann: Þad er fullkomnad! segir hann.

15. Fullkomnad legmál fyrir þig er, fullkomnad gjald til lausnar þér, fullkomnad allt þad fyrir er spád, fullkomna skalt þú eignast nád.

16. Herra Jesú! eg þacka þér, þvílíka huggun gafstú mér, ófullkomleika allann minn, umbæti Guddóms kraptur þinn.

17. Hjálpa þú mér svo hjartad mitt, hugsi jafnan um dæmid þitt, og haldist hér í heimi nú, vid hreina samvitsku' og rétta trú.

18. Uppá þessi þín ordin traust, ó bródur þey eg qvídalaust, því sú frelsis fullkomnan þín, forlíkad hefir brotin mín.

## 44. Sálmur.

Sjøunda Ord Kristis á krossinum.

Lagid er: Herra Gud í Himnaríki.

Hrópadi Jesús hátt í stad, holds megn og kraptur dv'nar: eg fel minn Anda, Frelsarinn qvad, Fadir! í hendur þínar.

2. Þú, kristinn madur! þenk uppá, þíns Herra beiskann dauda, ad ordum hans og einninn gá, eru þau lækning nauda.

3. Jesús haldin í hærstri qvøl, bladinn med eymdir allar, dapurt þá adgeck daudans bøl, Drottinn sinn Fødur kallar.

4. Herr-

4. Herrann vill kénna þar med þér, þá ef mannrannir freista, gódlyndur Fadir Gud þinn er, gjørir þú honum ad treysta.

5. Fyrir Jesúm þú fullvel mátt, Fødur þinn Drottinn kalla, enn þótt þig krossinn þvíngi þrátt, þad mýkir hermúng alla.

6. Eins og fadirinn aumkar sig, yfir sitt barnid sjúka, svo vill Gud einninn annast þig, og ad þér í miskun hjúka.

7. Einninn sýna þér ord hans klár, ódaudleik sálarennar, þó kroppurinn verdi kaldur nár, kreinkist ei lífid hennar.

8. Hvar hún finnur sinn hvíldarstad, Herrann sýnir þér líka, hønd Guds þíns Fødurs heitir þad, hugsa um rædu slíka.

9. Viljir þú eptir endad líf, egi þín sál þar heima; undir hønd Drottins hér þá blíf, hans bodord skaltú geyma.

10. Láttú Guts hønd þig leida hér, lífs-reglu [illegible] þá bestu, blessad ord hans sem bodast þér, í brjósti og hjarta festu.

11. Hrynd þú ei frá þér Herrans hend, hún þó þig tyrta vildi, legg heldr nú bædi líf og önd, ljúflega'á Drottins mildi.

12 Hér þegar mannleg hjálpin dvín, holdid þó qveini' og synti, uppá hönd Drottins augun þín, ætíd í trúnni líti.

13. Ad morgni' og qvöldi minnst þess vel, máls upptekt láttú þína: af hjarta' eg þér á hendur fel, Herra Gud! sálu mína.

14. Svo máttú vera viss uppá, vilji þér daudinn granda, sála þín mætir miskun þá, millum Guds Födurs handa.

15. Hún finnur eckert hrigdar strid, hermúng né mædu neina, í fridi skodar ætíd blíd, ásjónu Drottins hreina.

16. Eptirtekt mér þad einninn jók, er eg þess gæta kunni: andláts bæn sína sjálfur tók, Son Guds af Davids munni.

17. Bæn þína aldrei byggdú fast, á brjóstvit náttúru þinnar, í Guds ordi skal hún grundvallast, þad gefur styrk trúarinnar.

18. Vér

18. Vér vitum ei hvers bidja ber, blindleikinn holds því veldur, Guds ord sýnir barn sáunleik þér, sæll er sá þar vid heldur.

19. Vertú, Gud Fadir! fadir minn, í Frelsarans Jesú nafni, hend þín leidi mig út og inn, svo allri synd eg hafni.

20. Hendin þín, Drottinn! hlífi mér, þá heims eg adstod missi, en nær sem þú mig birtir hér, hend þína'eg gladur kyssi.

21. Daudans stríd af, þín heileg hend, hjálpi mér vel ad þreja, medtak þá Fadir! mína önd, mun eg svo gladur deya.

22. Minn Jesú! andláts ordid þitt, í minn hjarta'eg geymi, sé þad og líka síðast mitt, þá sofna'eg burt úr heimi.

## 45. Sálmur.

Um Jesú dauda.

Lagid er: Fadir vor, sem á himnum ert.

Þá Frelsarinn í Födurs hend, fól nú blessadur sína önd, nidur sitt höfud hneigdi fyrst, Herrann í því hann

sáladist. Drottinn vor þannim dó á tré, dásemd kunni ei meiri að ské.

2. Sancte-Páll segir í sannri raun, syndarinnar sé dauðinn laun, bana-spjót eru brotin ljót, boðorðum Drottins gjörð á mót, sá skal deya, sem syndgar hér, sv oddann úrskurður réttur er.

3. En það hér heima átti síst, af því Jesús er saklaus víst, af helgum Anda með hreinum sið, hann var getin í meyar-qvið, Guðs Föðurs veru fegurst mind, frjáls lifði' og dó af allri synd.

4. Hverki refsing né heljar bað, hafði nú Jesús forskuldað, hvað kom þá til að Herrann leið, harða pínu og beiska-nn deyð? eða hvar fyrir hirtist hann, hegníngar til sem aldrei vann?

5. Guðs Andi þar á gjörir skil, greinir þvílíka orsök til; vegna misgjörða vorra hér, vissulega hann færdur er, því Drottinn lagði svo fyrir sann, syndir-ar vorar uppá hann.

6. Sjá hér, mín sál! fyrir [illegible] þín, Sonur Guðs líður qval og [illegible]

hann dó fyrir þig, sem daudans bad, dárlega hafdir forskuldad, hann lét sitt líf svo lifdir þú, lífs eilífs von því áttú nú.

7. Á mig var fallin þyngsta þraut, þólad eg Drottins lögmál braut, sams vitsku særdi synda gráð, svo féck dauds ins sterk yfirráð, til fordæmingar mér fjöt= urin hans, fastlega héldu víst til sanns.

8. Lögmál safnadi sektum mér, sekt= inni daudinn eptir fer, daudinn til dóm= sins dregur snar, dómurinn straffid úr= skurdar, straffid um eilífd aldrei dvín, eilíf því var hin þyngsta pín.

9. Lögmálid hér sig forgreip fyrst, felldi þad dóm yfir Herrann Krist, þad baud ad sá bölvadur sé, sem bana líd= ur á einn tré, djarflega eptir því dauds inn géck, Drottinn frá lífi skilid féck.

10. Sekt þá, sem lögmál setti mér, sjálfur borgadi Jesús hér, þad misti sína makt í því, mig verdur nú ad láta frí, daudans broddur var brotinn þó, burt hans fángelsi slapp eg frá.

11. Eilífur daudi deyddur er, daudi Jesú þad vinnur hér, dýrt metur Drott=

inn dauda minn, daudi! hvar er nú broddur þinn? daudinn til lífs nú stutt er stig, stórlega daudinn batar mig.

12. Daudinn því orkar einn til sanns, útslockna hlýtur lífid manns, holdid legst í sinn hvíldar-stad, hans makt nær ecki lengra'enn þad, sálin af öllu sári frí, flutt verdur himna sælu í.

13. Í þínum dauda, ó Jesú! er mín lífgjöf og huggan trú, dásemdar kraptur dauda þíns, dreifist nú inn til hjarta míns, uppá þad synd og illskan hver, út af deyi í brjósti mer.

14. Þú hneigdir þínu höfdi ljóst, Herra! þegar á krossi dóst, med því bendtir þú mér þad sinn, ad minnast jafnan á dauda þinn, eins þá eg dey, skulu augun mín, upp líta, Drottinn sæll! til þín.

15. Fyrir þann deyd, sem þoldir þú, þig bid eg, Jesú! um þad nú: ad gefi mér þín gædskan blíd, góda kristins manns dauda tíd, hold mitt lát hvílast hægt med frid, höndþin sálunni taki vid!

## 46. Sálmur.

Um Teiknin, sem skéðu við Krists dauða.

Lagið er: Þá linnir þessi líkhams vist.

Þegar Kristur á krossins tré kanñadi daudann strída, teikn og stórmerki mestu ské, mælir svo Ritníng fríða: Musteris tjaldið mjeg umvendt, í midju vard að rifna'í tveñt, hristist jörð harla víða.

2. Sundur-klofnudu björgin blá, byrgð leidin opnast fóru, líkhamir dauðra lífna þá, lit hér þau undurin stóru, eptir Lausnarans upprisu, inn í borgina vitjudu, af sumum þar sjenir vóru.

3. Hvað hér historían hermir rétt, hygg að því, sál mín mæta! hér til lærdóms er það framsett, þess átt vel að gæta, jördin skalf þegar Jesús dó, jafnvel þeir hördu klettar þó, syndu meðaumkun sæta.

4. Steini hardara'er hjartað það, sem heyrir um Jesú pínu, gefur sig þar þó ecki að, ann meir gjálfsi sínu; kann

neckud svoddan kaldt hugskot, Krist dauda ad girnast not? Gud stjórni gèdi mínu!

5. Pad má undra: hin púnga jörd, þreydi ei kyrrt'ad halda, blágrýtis einnig bjørgin hörd, bresti lidu margfalda, holdid þó ei ne hjartad manns, hriggist vid pínu Skaparans, sem hans þó hlaut ad gjalda.

6. Fortjaldid sýnir sannleik þann, sundur þá rifna nádi, aftakast skyldi ok fyrir sann, eptir Guds settu rádi, Gydínga-kynsins kóngleg stjórn, Kennivaldid og logmáls fórn, sem Ritníng sjálf um spádi.

7. Hindran red ollum ærid stór, inn í Guds ríki banna, því veldur syndasektin vor, og saurugleikinn verkanna; en fyrir Jesú dýrstann deyd, Drottinn tilbjó oss opna leid, hèdan upp til himnanna.

8. Hèr í kristninnar helgidóm, hefum vèr frelsi'ad gánga, þar bodast nád og blessan fróm, burt er þá sorgin stránga, sálin vor hefir búna braut, beint í N-

brahams gledi-skaut, eptir heimrs hermfáng lánga.

9. Frelsarans dauda einnig ad, endud líkin hér njóta, gudlegur kraptur gjørdi þad, grafirnar opnast hljóta, því Drottins Jesú daudi á kross, daudann sigradi fyrir oss, abl hans og brodd nam brjóta.

10. Merk, ad úr jørdu mátt'ei neinn, madur frá dauda standa, fyrr enn tjedi vor Herra hreinn, hold sitt aptur lifanda, fyrstur allra því uppreis hann, af eginn krapti, og þar med fann, endurlausn oss til handa.

11. Høfdinginn krossi Herrans hjá, hér med allt fólkid líka, jafnsnart, sem þetta jardteikn sjá, játning þeir gjørdu slíka: sannlega hefir saklaus hann, og Son Guds verid þessi mann; brjóst slá og bradt heim víkja.

12. Fólkid, sem harda kroßins qvøl, Kristi fyrr óska nádi, sann nú hid þyngsta í brjósti bøl, beiskleg samvitskan þjádi; of hastarlegann úrskurd slíh, ef þú vilt vera'af sorgum frí, hatt er rasanda rádi.

13. Vandi þinn, Jesú Drottinn! þá, dýrdlegann krapt hjúendi, heidnum manni svo hér vid brá, hann þig Guds Son medkéndi. Eg bid gædskunnar gédid þitt: géf þú vidlisni hjartad mitt, ad svo frá íllu vendi!

## 47. Sálmur.

### Um Krists kunningja.

Lagid er: O Jesú! elsku hreinn.

Kunníngjar Kristí þá, krossinum lángt í frá, stódu med þúngri þrá, þessa tilburdi sjá.

2. Var þar og vidstadt med, ad vísu margt qvennfólked, sir Jesú fengu sied, sorgandi báru ged.

3. Af þessu, mín sál! þú sjer, sannlega hversn er, vallt allt í heimi hér, haf slíkt í minni þér.

4. Dvölnar og dregst í hlje, á dauðastundunne, vinskapur, frændur, fje, fallvallt hygg eg þad sé.

5. Þó vildu vinirnér, veita hjálp nockra þér, voru þeirra óuhyt er, engi... daudanum ver.

6. Lífinu hjákrar hönd, þá hrerdir sóttar grönd, hjálpa þó engin önd, upphugsuð ráðin vönd.

7. Vinskap í synda síð, sála mín! þess eg bið, haldtú ei veröld við, viljir þú sofna' í frið.

8. Hreinann vinskap haldt þú, við Herrann þinn Jesúm nú, í hreinni hjartans trú, frá heimsins elsku þér snú.

9. Hann einn má hjálpa þér, þá hjástoð mannleg þver, heim þig á höndum sér, í himna sælu ber.

10. Það hér í sannleik sjest, er Sonur Guðs andaðest, sorgin þá særði mest, sem hann elskuðu best.

11. Krists börn eru kross-börn, við Kristum hlýðnis gjörn, hann sýnir þeim hjálp og vörn, þó hörð sé sútar qvörn.

12. Þú skyldir þar að gá, þó þeir stæðu lángt frá, allir samhuga sjá Son Guðs kross festann á.

13. Komið svo konur og menn, að krossinum Jesú senn, þó nauðin þreyngi þrenn, þar sæst nóg lækningen.

14. Kom þú, sál kristin! hér, sem kroſs og mannrauñir ber, settú fyrir sjónir þér, Son Guðs, sem pludur er.

15. Uppá hans heilög sár, horfi þín trúin klár, það mykir trega og tár, temprar allt sorgar-fár.

16. Sértú, syndugur mann! særdur um hyggju-rann, horf þú beint uppá hann, sem hjálp þér á krossi fann.

17. Hverr, sem eyr-orminn leit, af Israels manna sveit, eitrið ei á þann beit, oll stilltist plágan heit.

18. Svo stór synd engin er, að megi granda þér, ef þú á Jesúm sjer, ydrandi' í trúnni hér.

19. Sje eg þig, sæll Jesú! svo sem óleingdar nú, von mína' og veika trú, við bið eg hreſsir þú.

20. Þá eg sje sárin mín, særir mig hjartans pín, sárin þá sje eg þín, sorg öll og qvídi dvín.

21. Lát mig, o Jesú kjær! aldrei svo vera þér fjær, að sjá' ei sár þín skjær, þá sorg og eymd mig slær.

22. Veit mér eg verdi' og sé, vin þinn og kunníngе, þó hverfi heilsa' og fé, hjálp mun þá nóg í tje.

23. Eg fel í sérhvert sinn, sál og líkhama minn, í vald og vinskap þinn, vernd og skjól þar eg finn.

## 48. Sálmur.

### Um Krists Sidu-sár.

Lagid er: Uppá fjallid Jesús vendi.

Ad qvøldi Júdar frá eg færi, til fundar sem vid Pilatum, og þess beiddu: ad ecki væri, øndud lík á krossunum, þvi hátidin var harla nærri; hér svo Ritníng greinir um.

2. Stridsmønnum hann baud ad brjóta, beinin þeirra' og svo var gért, heljarstund þeir hrepptu skjóta, hinir tveir — sem greini'eg bert — en Jesúm létu sins lifláts njóta, limina hans ei fengu snert.

3. Stridsmann einn med heiptarhóti, hardlyndur géck krossi ad, Lausnarans sidu lagdi spjóti, lagid nam í hjarta stad, blód og vatn þar frá

eg út fljóti, fyrr var ádur spád um þad.

4 Umhugad er einum Drottni, allra sinna barna lík, í jördu hér þótt holdid rotni, huggan traust mig gledur slík, hann vill ei týnist bein né brotni; blessud sé sú elskan rík!

5. Gud Drottinn med gædsku rádi, gjördi Adams sídu af, frída qvinnu fyrst á ládi, fast hann þó á medan svaf, vaknadur þess ad vísu gádi, og veglegt henni nafnid gaf.

6. Sefnadur á sinni sídu, sárid Drottinn Jesús bar, svo ad af vatni og blódi hans blídu, bygdist heilög kristnin þar, nádi' hún edla nafni frídu nær til himna stígin var.

7. Skoda þú hvernin skírnin greina, skiljast nú med réttu á, ad vísu jafnan vatnid eina, vor ískanleg augun sjá, en trúar sjónin, svo má greina, Sonar Guds blód þar lítur hjá.

8. Æ! hvad má eg sælann sanna, Saukti Thómas Postula þinn, þá sídu mátti hann sár þitt kanna, sína hönd

þar lagti inn, þú munt ei mér þjádum banna, þad ad skoda, Jesú minn!

9. Allar Jesú ædar slódu, opnadar í qvölinne, dreyra lækir dundu'og flódu, um Drottins líf á krossins tré, nægd af lausnar-gjaldi gódu, Guds Son fyrir mig lét í tje.

10. En svo eg skyldi sjá og játa, sanna elsku Drottins míns, vildi'hann ecki læstar láta, lífs-ædarnar hjarta síns; því er, sál mín! mikil úr máta, miskunsemi Lausnara þíns.

11. Opnar dyr á arkar sídu, inn um gengu skepnurnar, sem sjálfur Drottinn baud med blídu, bjargast skyldu inni þar, fyrir vatnsins flódi stríðu, frelsi'og líf þeim gefid var.

12. Lissins dyr á sídu sinni, setur Jesús opnar hér, svo ángrud sála adstod finni, öll þá mannleg hjálpin þver, hverr sem hefir þar athvarf inni, frá eilífum dauda leystur er.

13. Nói um sinn arkar glugga, upp til himins litid fêck, haldinn dymmum hrigdar skugga, þátt þá vatnsins flódid

gêck

géck, svo þann mætti' um sídir hugga, sólar ljóma birtan þeck.

14. Gégnum Jesú helgast hjarta, í himininn upp eg líta má, Guds míns ástar birtu bjarta, bædi sæ eg ad reyna' og sjá, brigdar myrkrid sorgar svarta, sálu minni hverfur þá.

15. Guds var máttug mildin prúda, Móses þegar steininn sló, út til allra Israels búda, ágjætt svala vatnid dró, þressti þyrsta, þjóda, lúda, þeim svo nýa krapta bjó.

16. Þá sjálfur Gud á Sonarins hjarta, sínum reidi-sprota slær, um heimsins áttar alla parta, útrann svala-lindin skjær, sálin vid þann brunninn bjarta, blessun og nýa krapta fær.

17. Vid þennann brunninn þyrstur dvel eg, þar mun eg nýa krapta fá, í þessi inn mig fylsnin fel eg, fargar engin sorg mér þá, sælann mig fyri trúna tel eg, hún tekur svo Drottins benjum á.

18. Hjartad mitt er, Herrann gódi! hriggilega saurgad mjøg, þvodú þad med þínu blódi, þess af audmýkt beidi eg,

vinni mér bót á mædu'og módi, miskunsemin guddómleg.

19. Hjartans innstu ædar innar, elski, lofi, prísi þig, en hjarta-blód og benjar þínar, blessi, hressi, grædi mig, hjartans þýdar þackir sínar, þér se gædskan eilifflig!

## 49. Sálmur.

### Um Krists greftrun.

Lagid er: Nú látum oss líkhamann grafa.

Jóseph af Arimathia, edalborinn Rádherra sá, Gydinga svik vid Son Guds sked, sampyckt hafdi þeim aldrej med.

2. Hann var Lausnarans lærisveinn, lifernis frómur, dygda hreinn, Gydinga hræddist heiptar raun, heldt sig ad Kristi þó á laun.

3. Þessi um qvøldid þángad gieck, þá af Pilats leyfid fieck, ad mætti Jesúm andadann, ofan taka og jarda hann.

4. Jóseph tók strax af krossi Krist, keypti þó nyann lin-dúk fyrst, Nicó-

demus kom þegar þar, þángad kostuleg smyrslin bar.

5. Jóseph grøf eina átti þar, útkløppud sú í steini var, í aldingardi þar allskamt frá, enginn fyrr daudur í henni lá.

6. Dýrdlega smurdu Drottins lík, dæmin má ønnur finna slík, byrgdu med steini búna grøf, burt gengu strax fyrir utan tøf.

7. María Jacobs módir ein, Magdalena á sømu grein, Salóme einnig sat þar hjá, sáu vors Herra greftrun á.

8. Í þeirra selskap, sál mín blíd! settu þig nidur litla tíd, greftrun þíns Herra gæt vel ad, gagnlaust mun ecki vera þad.

9. Vid Jesú greftrun jeg sæ sjed, Jóseph og Nicódemum med; ádur þordu þeir ecki Krist, opinberlega ad játa fyrst.

10. Nú fá þeir nærsta nýann dug, nóga djørfúng og styrkvann hug, augljóslega svo allir sjá, elsku sem Drottni þeydu á.

11. Ríkis-

11. Rjúkandi trúar þorinn þer, helgur Andi svo vidnærer, ljómandi þar af ljósid skín; lífgar þad allt med krapti sín.

12. Huggist þeir nú, sem hjartad deigt, hafa og trúar megnid veikt, bidji um styrk og stødugt gód, stundi og læri Guds ord med.

13. Veit þú, Jesú! ad veik trú mín, vaxi daglega' og elskan þín, eblist svo med mér innvortes, ytra gód sjáist merki þess!

14. Annad þú líka merkja mátt: mislíkar Drottni' á engann hátt, þó heidurleg sé hér á jørd, haldi útvaldra líkfør gjørd.

15. Mætast Guds Anda musteri, manns var rétt kristins líkhami, því má honum veitast vyrding rétt, vel med stilling og hófi sett.

16. E:fis-dryckjur og ónytt prjál, ecki á skylt vid þetta mál, heidingja sickan heimskuleg, hæfir kristnum á engann veg.

17. Ætíd þá sjer þú sálad hold, sett vera nidur í jardar mold, hriggur þú

vert og hugsa brádt, hér vid þú líka skilja ått.

18. Lagt þegar nidur líkid sjer, látu sem daudinn hvísli' ad þér: lángt, máské, ecki lídi' um þad, legg og þig eins í slíkann stad.

19. Gódi Jesú! fyrir greftran þín, gef þú sídasta útför mín, verdi farsæl og fridsöm mér, frelsud sál nái dvöl hjá þér.

20. Í þridja máta; huggun hrein, hér veitist þér á alla grein, Guds Sonar hold því greftrad var, greftrun minni til vyrdíngar.

21. Helgum Guds börnum Herrans hold, helgadi bædi jörd og mold; gröfin því er vort svefnhús sætt, svo má ei granda reidin hætt.

22. Svo ad lifa, eg sofni hægt, svo ad deya, ad qvöl sé bægt, svo ad greftrast, sem Guds börn hér, gef þú, sætasti Jesú! mér.

# 50. Sálmur.

## Um Vardhalds-mennina.

Lagid er: Gef eg mig allann á Guds míns ráð.

Ødlúngar Júda annars dags, inn til Pílatum gengu strax, sögdu: Herra! vér höfum mest, í huga fest, hvad sá Falsari herma lèt.

2. Eptir þriá daga (ort fyrir sann), uppríſa mun eg, ſegdi hann; vid ſlíku'er beſt ad leita lags, lát geyma ſtrax, þeſſa grøf inn til þridja dags.

3. Máſke líkid med leyndum hljódt, lærisveinar hans taki'um nótt, og lýdnum ſegi þad lyga ſkin; þá líſt ei kyn, þó verdi sú villan verr'enn hin.

4. Platus víſt þeim vardhald fèck, vaktin ſtrax út af ſtadnum gèck, grøfinni blifu Herrans hjá, og ſvo til ſjá, ſettu innſigli ſteininn á,

5. Gydinga hörd var heiptin beiſk, hjartans blindleiki' og villan treyſk, þeim kunn'ei nægjaſt qvøl og bann, ſem Kriſtur fann, líka daudann þeir láſta hann.

6. Fordæst þú svotdann fiblíku grein, framlidins manns ad lasta bein, sá daudi' hefir sinn dóm med sér, hverr helzt hann er, sem best hafgát á sjálfum þér.

7. Gydingar vildu veita rird, vors Lausnara upprisu dyrd, en Drottins vald og vísdóms ráð, þess vel fékk gád, verk sitt framqvæmdi víst med dád.

8. Hefdi ei vaktin geymt og gætt, grafarinnar, sem nú var rædt, orsek var meiri'ad efast þá, hvert upp réd stá, Drottinn vor Jésús daudum frá,

9. En þeir sjálfir, og er þad víst, upprisu Drottins hafa lyst, þó Kennimenn Júda' of faldri stygd, qvaldir af blygd, keyptu þá til ad bera lygd.

10, Öll svikráð manna'og atvik ill, ónytir Drottinn þá hann vill, hans ráð um eilífd stedugt stár, og stjórnin klár, slægdin dramblátra slétt forgár.

11. Hvíli'eg nú sidast huga minn, Herra Jesú! vid legstad þinn, nær sem eg gætt'ad greftrun þín, glедst sála mín, skelfing og ótti daudans dvín.

12. Sekrir mínar og syndir barst, sjálfur þegar þú rtndur va st, uppá það dóstú, Drottinn kjær! svo quittunst þær, hjartað þvi nyann segnud fær.

13 Þú gróst þær nidur í gref med þér, gafst þitt réttlæti aptur mér, í hafsins djúp, sem fyrispád finnst, þeim flengdir innst, um eilífd verdur ei á þær minnst.

14. Svo er nú syndin innsiglud, ydrandi sála qvitt vid Gud, eilíft réttlæti uppbyrjad, í annann stad, trúud manneskja þyggur það.

15. Daudi þinn, Jesú! deydi hér, dárlega holdsins girnd í mér, grefin þín hv'ji glæpi mín, fyrir Guds augsyn, ebli mér styrk upprisan þín.

16. Stein-þró míns hjarta'úthoggvin sé, heilagur Andi vann það best, lín-

dúk

dúk tiáar eg læt í tje, minn Lausnare! ylmandi smyrsl ydranin sé.

17. Svo finni'eg haga hvíld í þér, hvíl þú, Jesú! í brjósti mér, innsigli' heilagur Andi nú, med ást og trú, hjartad mitt svo þar hvílist þú.

18. Dýrd, vald, vegsemd og vegsemd hærst, vitska, mekt, speki' og loísgjørd stærst, sé þér, o Jesú Herra hár! og heidur klár, Amen! Amen! um eilíf ár!





# Sálmur
## um Jesu Pínu,
útlagdur af
## Þorvaldi Bodvarssyni,
Prófasti í Vestur-Isafjardar Sýslu og Presti til Holts í Önundarfirdi.



Lagid er: Heimsins Stýrir forsjón fasta.

Ó minn Jesú! øll þín pína, alla sesar brigd og neyd, huggast eg, þá hørmúng þína, hugsa um og beiskann dæyd; til lausnar allt því leidstú mér, lát mig aldrej gleyma þér! þér, sem synda-sekt barst mína, saklausann þá léztu þig pína.

2. Ef mér slýgur synd í sinni, svikult mín ef freistar hold, þá æ sért mér þá í minni, þar vid krossinn stódst á

fold, hæddur, qvalinn, hatadur, huggun
vina ersneyddur, fjetur syndaʼeg fæ þá
sliid, og fullur vikunn til þín litid.

3. Heims ef lyst mig glisleg ginnir,
glæpa fram á breidann veg, gjálífis ad
glaum eg sinni, gêdhraustur, nei! segi
eg; heims lyst Jesúm hengdi'á trêd;
hins rêttláta qvaldi gêd, burt holds lyst
úr brjósti mínu, bjó hún Lausnaranum
pínu.

4. Ef mêr ógnar óttiʼog mæda, eg
þá, Jesú! med þêr líd, mig þau ecki
megnaʼad hræda, eg minnist á þitt dauda
stríd, þitt mêr kênndi þolugt gêd, þol-
inmædiʼad sigra med; æ eg vil þêr ept-
ir feta, ebl mig bædiʼad viljaʼog gêta!

5. Og þó hel á fund minn fari, full-
öruggur samt er eg; þú, mín vernd og
minn Lausnari, máttir gânga sama

veg; og þú vegsemd ávannst þér, en f[illegible]st st[illegible]d tilbúid mér, í þíns Feðurs [illegible]dar ríki, finnst þar eckert böl né skyki-

6. Jesú! sál áminntú mína, ad miña vegna blód þitt rann! kross þinn, dauði, qvøl og pína, qvittun synda' og lausn u ek vann; þá skal øll mín æfistund, offrud þér, en þels vid blund, þig mitt andvarp efsta prísa, upp til dýrdar holdid rísa.



esſelben zuvor überg

pzig, den 8. April 1865.

Harr

… für den
…hh… von Carl Minde
in Leipzig.

…bſchen gangbaren Verlag,
…ür Anfänger, habe mit Dis=
…lieferungen 1864 für 2300
…n Anzahlungsbedingungen in
…en.

…ntur=Comptoir für den
…en Buchhandel.
Carl Minde.

…tte Sortimentsbuch=
…ntiqu. in einer mittleren
…leſiens iſt wegen Alter des
…—1500 Thlr. zu verkaufen

…ntur=Comptoir für den
…chhandel von Carl Minde
…ig.

## …aufgeſuche.

…tjähriges, meiſt ſelbſtän=
…uſikalienhandel, nach al=
… dieſer Branche erfahrener,
…enſchaftlich gebildeter noch
…üchtiger Sortimentskennt=
…n Verkehr mit dem Publi=
…alten verſchiedener Städte

# Fertige Bücher u…

Librairie de L. Hachet… C…
Boulevard Saint-Germai…

[7572.]

Paris, den 1.…
Bei uns erſchien in Commi…

**Histoire**
**physique, économique et…**
**du Paragua…**
**et**
**des établissements des …**
par
**L. Alfred Demersa…**
Tome II.
**Agriculture, industrie, c…**
**Histoire générale du Pa…**
1 Vol. gr. in-8. Br. …
Band I. ebenfalls 10 …

Von dem zu dieſem Werke …
las erſchienen bisjetzt 4 Lfgn. à …
Andere als Baarbeſtellunge…n
nicht berückſichtigen.

L. Hache…

